WILFRED BURCHETT

# Hvers vegna „féllu“ borgirnar í S-Víetnam?

Í mörg ár reyndi Thieu-stjórnin að breiða yfir hið raunverulega ástand sem ríkt í S-Víetnam - en í þriðju viku mars s.l. tók yfirbreiðslan að rifna af og hið raunverulega ástand kom fyrir auglit allra.

Margir fréttamenn lýstu furðu sinni fyrir því að Thieu-stjórnin hefði á örfáum dögum "misst" mörg héruð og "yfirgefið" hin hernaðarlega mikilvægu miðhálendi.

Í rauninni hafði Thieu-stjórnin aldrei haldið þeim héruðum sem hún lýsti nú töpuð og því síður miðhálendinu. Hún réði aðeins yfir héraðshöfuðborgunum og nokkrum mikilvægum vegamótum.

Það sem hefur gerst síðustu vikur var ekki "allsherjarsókn" eins og Thieu reyndi að útskýra það í ávarpi til þjóðarinnar 20. mars - heldur framkvæmd lokastigsins í alþýðustríði. Umsátur um borgirnar, fyrst og fremst af skæruliðum úr héraðinu ásamt reglulegum herdeildum, hafði náð slíku hámarki að fáeinar hnitmiðaðar árásir héraðsskæruliðanna á lykilstaði - t.d. Ban Me Thuot í miðhálendinu - nægðu til þess að öll byggingin hrundi. Umsátrinu lýkur og lokastigið - taka borganna - er framkvæmd.

## Hlutverk fjallaþjóðflokkanna

Hið hrottalega morð á fréttamanninum Paul Leandri 14. mars s.l. í Saigon varð vegna þess að hann hafði vogað sér að eyðileggja eina best varðveittu blekkingu Thieu-stjórnarinnar - nefnilega þá að hernaðarósigrar Thieu stöfuðu af "innrás norður-víetnama." Leandri var færður til höfuðstöðva lögreglunnar vegna þess að hann skýrði frá því að hermenn frá fjallaþjóðflokkum á miðhálendinu hafi borið hitann og þungan af sókninni að Ban Me Thuot, sem er opinber höfuðborg miðhálendisins. Leandri var skotinn þegar hann yfirgaf lögreglustöðina.

Bandaríkin höfðu eytt milljónum dala í tilraunir til þess að vinna fylgi fjallaþjóðflokkanna, en þeir uppskáru stöðugar uppreisnir sérstaklega á svæðinu umhverfis Ban Me Thuot, uppreisnirnar voru kæfðar niður af mikilli hörku. Þegar að því kemur að allur sannleikurinn um aðgerðir Washingtonstjórnarinnar gagnvart fjallaþjóðflokkunum kemur í ljós, munu þær eflaust verða taldar með ljótustu köflum í sögu stríðsins. Bandaríska stjórnin reyndi að vinna fylgi þeirra sér til handa - en þegar það mistókst beitti hún fjöldamorðum gegn þeim.

Þegar ég heimsótti frelsuðu svæðin í fyrsta skipti árin 1963-64 voru stórir hlutar miðhálendisins þá þegar á valdi fjallaþjóðflokkanna sem voru í bandalagi við Þjóðfrelsisfylkinguna. Hermennirnir, sem voru undir stjórn liðsforingja úr sömu þjóðflokkum og þeir, réðu svæðinu alveg að úthverfum borganna Ban Me Thuot, Pleiku og Kontum. Með yfirráðum sínum í lofti og stöðugum eftirlitsferðum um helstu þjóðvegina tókst yfirherstjórn Bandaríkjanna/Saigon að halda þessum borgum - og viðhalda blekkingunni um að Thieu-stjórnin réði miðhálendinu, sem hún þó í rauninni aldrei gerði.

Einn af meginliðum í pólitískri stefnuskrá Þjóðfrelsisfylkingarinnar fjallar um sjálfstjórnarhéruð minnihlutaþjóðflokkanna á miðhálendinu - og í 10 ár hefur þessum ákvæðum verið framfylgt í verki. Ybih Aleo, gamalreyndur leiðtogi Rhade þjóðflokksins, hins fjölmennasta af minnihlutaþjóðflokkunum, er varaforseti Þjóðfrelsisfylkingarinnar - en hann er ættaður frá svæðinu við Ban Me Thuot. Þegar ég heimsótti frelsuðu svæðin í fjórða og síðasta skiptið höfðu fjallaþjóðflokkarnir myndað heila herdeild (division) í fastaher Þjóðfrelsishersins - og þar að auki voru til staðar héraðsherflokkar og sjálfsvarnarsveitir þorpanna. Þessi upptalning nær aðeins yfir Ban Me Thuot-svæðið, hersveitirnar samanstóðu af mörgum minnhlutaþjóðflokkum undir stjórn liðsforingja úr sömu ættflokkum og unnu sem ein skipulögð heild.

Það ástand sem ríkti á miðhálendinu ríkti einnig í norðurhluta S-Víetnam, í þeim héruðum sem Thieu-stjórnin "yfirgaf". Það voru aðeins héraðshöfuðborgirnar og nokkrar smærri borgir sem voru á valdi Thieus, en allt svæðið umhverfis borgirnar voru undir öruggri stjórn Bráðabirgðabyltingarstjórnarinnar (BBS) og Þjóðfrelsishersins. Þetta er skýringin á því hvers vegna þessar borgir voru látnar af hendi án orrustu - en skýring Thieus þ. 20. mars, þe. að "liðsflutningar norður-víetnama" hafa neytt hann til að láta þær af hendi, er tómt þvaður.

James Schlesinger, varnarmálaráðherra Bandaríkjanna, útskýrir hinn mikla flótta Saigonhersins með því að benda á neitun bandaríska þingsins um 300 milljón dala viðbótarhernaðaraðstoðar til Thieu. Þetta er fráleitt. Sannleikurinn er sá að milljörðum dala hefur verið fleygt í áraraðir til þess að viðhalda þeirri blekkingu að Thieu-stjórnin réði þessum svæðum.



Nguyen Huu Tho

Aldrei nokkurn tíma, ekki einu sinni þegar Bandaríkin höfðu hálfa milljón hermanna í Suður-Víetnam, tókst herstjórn Bandaríkjanna/Saigon að ná hernaðarlega mikilvægustu stöðvum Þjóðfrelsisfylkingarinnar, eða að brjóta á bak aftur síhert umsátur um borgirnar. Einstaka sinnum tókst þeim að gera skyndiárásir inn á svæðin og þrýsta umsátrinu til baka um eina eða tvær mílur, en það var allt og sumt.

Í viðtali við Nguyen Huu Tho, forseta Þjóðfrelsisfylkingarinnar í Suður-Víetnam, stuttu eftir að bandarískar hersveitir komu til Suður-Víetnam í mars 1965, spurði ég hann hvernig mótspyrnuliðið gæti brugðist við svo óskaplegum hernaðarstyrk.

"Stríði er stundum jafnað við skák," svaraði hann. "Ef þú tapar einni skák, hreinsar þú borðið, hver um sig safnar saman liðinu og síðan er leikurinn hafinn að nýju. Þannig er það ekki í stríði. Með því að leggja fram sitt eigið herlið, hafa bandaríkjamenn viðurkennt að þeir hafa tapað fyrstu lotu í "sérstöku stríði," þar sem þeir lögðu allt til nema herliðið og hafa fært sig út í "takmarkað stríð." Þegar þeir fara út í "takmarkað stríð" er staðan þannig að okkar menn eru þegar komnir í stöðu á skákborðinu, vinningsstöðu.

Þeir koma inn í ástand þar sem við erum algerlega ríkjandi, þar sem við höfum frumkvæðið, hernaðarlega séð. Þeir áttu fárra kosta völ varðandi það hvar þeir gætu staðsett peð sín og hershöfðingja. Þeir gátu ekki dregið línu og sagt við okkur: "Sunnan línunnar er okkar svæði, norðan megin er ykkar - berjumst og sjáum hver vinnur." Þeir gátu aðeins flutt sig til þeirra svæða sem hinn óstöðugi leppher hafði getað haldið til þessa, og nokkurra annarra sem bandaríkjamenn voru reiðubúnir að gjalda mikið fyrir að ná og enn meir fyrir að halda.

Hver staður sem þeir hafa náð hefur umsvifalaust verið umkringdur af herjum okkar og því mun haldið áfram. Einn ákvarðandi þátturinn mun að sjálfsögðu verða sá hverjir setja skilyrðin fyrir baráttuna. Ef bandaríkjamennirnir gætu ráðið skilmálunum, þá mundi her okkar tapa fljótlega. Við höfum engar flugvélar engin herskip, enga skriðdreka og ekkert stórskotalið (þetta var í nóvember 1965 -W. B.). En þar sem við ráðum ástandinu þá erum það við sem ráðum skilmálunum, hvenær og hvernig afgerandi orrustur eiga sér stað. Bandaríkjamennirnir verða að berjast út frá okkar skilmálum, en við ekki samkvæmt þeirra. Jafnvel þegar þeim tekst að taka frumkvæðið með einhverri árásaraðgerð sinni, þá eru það samt sem áður okkar herir sem ákveða hvar og hvernig barist verður..."

Þessi skilgreining heldur sínu fulla gildi í dag, tíu árum seinna, og hún á jafnvel við um Saigonherinn, sem Bandaríkin skildu eftir til þess að taka við eftir að þeir höfðu tapað annarri lotu í hinu "takmarkaða stríði."

Ástandið í Suður-Víetnam síðustu mánuði hefur verið sláandi líkt ástandinu í sumum hlutum landsins rétt fyrir orrustuna um Dien Bien Phu (1954) - orrustunni sem gerði út um völd frakka - útávið sýnist allt vera með kyrrum kjörum, en undir niðri kraumar og sýður.

## Hin rétta stund

Í ávarpi sínu 20. mars sagði Thieu að her hans ætti við ofurefli að stríða - hann sagði að gegn hverjum hermanni hans stæðu 3 óvinir. Þessi játning kemur á óvænt þar sem fastaher Thieus samanstendur af 1,1 milljón manns. Ef þetta ofurefli (3 gegn 1) er til staðar er það ekki sökum "innrásar að norðan" heldur verður að skoða það út frá lögmálum alþýðustríðsins þar sem allar herdeildirnar eru umkringdar af skæruliðum og héraðshersveitum. Þetta umsátur er ætíð til staðar, sífellt áhrifaríkari ógnun sem hefur verið framfylgt allt stríðstímabilið. Fastaher Þjóðfrelsishersins, sem er betur vopnum búinn, er svo til staðar sem varalið, reiðubúið til átaka á réttri stund.

Hin "rétta stund" var nú greinilega samræmd, og til stuðnings, sókn Þjóðfrelsishersins í Kambódíu - þar sem sú hætta lá í loftinu að Saigonherinn myndi reyna aðra innrás í Kambódíu til þess að freista þess að opna aftur Mekongfljótið.

Hernaðarlegir árangrar sameiginlegrar ráðstefnu alþýðunnar í Indókína, sem var haldin fyrir fimm árum (24-25 apríl 1970) þar sem baráttan var sameinuð og samræmd, eru nú að koma í ljós. Þær 300 milljónir dala sem Ford bandaríkjaforseti hefur sóst svo grimmt eftir til hernaðaraðstoðar munu ekki einu sinni duga til að borga pappírinn sem þarf til að endurprenta herstjónarkortin í Suður Víetnam.

Þýð. HH/JJ

(Wilfred Burchett starfar við bandaríska blaðið "Guardian". Hann er þekktur fyrir skrif sín um Víetnamstríðið - en hann hefur oft heimsótt bæði Norður og Suður Víetnam. Til glöggvunar skal það tekið fram að þessi grein er skrifuð í lok mars '75)

---

Viðtal við Ólaf Gíslason formann Víetnamnefndarinnar

# Hver verður framtíð Víetnamnefndarinnar?

Stéttabaráttan átti nýlega viðtal við Ólaf Gíslason, formann Víetnamnefndarinnar á Íslandi. Víetnamnefndin hefur starfað allmikið að undanförnu og Stéttabaráttan vill með þessu viðtali gefa lesendum yfirlit yfir starfið í dag. Ennfremur stendur Víetnamnefndin frammi fyrir tímamótum í starfi sínu þar sem allt Suður-Víetnam er nú laust undan oki bandarísku heimsvaldasinnanna. Við ræddum því lítillega um framtíðarstarf nefndarinnar og þær skoðanir, sem eru uppi í því sambandi.



Ólafur Gíslason, formaður VNÍ, ásamt Tran Van An og Huynh Thai Son, sem voru hér í heimsókn fyrir skömmu á vegum nefndarinnar og SHÍ.

Sp.: Hvað getur þú sagt okkur af gangi söfnunarinnar?

- Fram að þessu (14. maí) hefur safnast liðlega hálf milljón króna í Víetnamsöfnunina, sem er aðeins helmingurinn af þeirri upphæð, sem við höfðum ásett okkur að safna fram að 1. maí. Þetta er auðvitað mun lélegri árangur en við höfðum gert okkur vonir um. Veldur þar margt. Undirtektir fólks á fjöldafundi nefndarinnar í Háskólabíói og í göngum og á útifundum 1. maí í Reykjavík voru mjög góðar. Þátttaka háskólastúdenta í söfnunni hefur einnig verið mjög góð og hafa þeir bæði lagt af mörkum fé og starfskrafta. Einnig hefur söfnunin tekist allvel á Neskaupstað og Laugarvatni. Hins vegar hefur fremur lítið safnast inn á reikning nefndarinnar á milli hinna skipulögðu söfnunarherferða. Erfitt hefur verið að fá sjálfboðaliða til söfnunar vegna prófanna, fleiri safnanir, sem verið hafa í gangi samtímis hafa í reynd eitthvað spillt fyrir okkur söfnun, áróður íhaldsaflanna gegn söfnuninni og lygaherferð ríkisfjölmiðla og annarra gegn Þjóðareiningarstjórninni í Kambódíu; allt hefur þetta haft sín áhrif, og að lokum höfum við nú áttað okkur á smávægilegum mistökum nefndarinnar í sambandi við skipulagningu söfnunarinnar, en þar erum við nú reynslunni ríkari.

Sp.: Víetnamnefndin hefur verið gagnrýnd bæði frá hægri og "vinstri", m.a. hafa "vinstri"mennirnir haldið því fram, að söfnunin sé háð þeim skilyrðum, að fénu sé eingöngu varið til s.k. mannúðarmála og að Þjóðfrelsishreyfingunni sé ekki leyfilegt að verja henni til vopnakaupa. Gagnrýnin frá hægri snertir sama atriði, þ.e. að söfnunarfénu verði einmitt varið til vopnakaupa. Hvað vilt þú segja um þessa gangrýni?

- Gagnrýni þessi fellur um sjálfa sig og er greinilega sprottin af vanþekkingu eða andúð á þjóðfrelsisbaráttunni í S-Víetnam, nema hvort tveggja sé. Við höfum stöðugt samband við upplýsingaskrifstofu BBS í Osló og þeir hafa sagt okkur, að þörfin sé nú brýnust fyrir matvæli og lyf til þess að aflétta þeirri neyð, sem Thieu-stjórnin hafði skapað á yfirráðasvæði sínu. Það gefur auga leið, að BBS vantar ekki vopn, því Bandaríkjastjórn skildi eftir vopn í S-Víetnam, sem metin eru á fleiri milljarða bandaríkjadollara.

Sp.: Hvað er framundan varðandi söfnunina? Hvenær lýkur henni?

- Framundan er einfaldlega meiri söfnun. Við sættum okkur ekki við þennan lélega árangur og munum halda áfram þar til a.m.k. einni milljón hefur verið safnað. Í því skyni er m.a. í bígerð, að Víetnamnefndin gangist fyrir tónleikum, þar sem ágóða verður varið til söfnunarinnar. Einnig munum við láta reyna enn frekar á það, hvort ekki sé hægt að fá Alþýðusambandið, verkalýðsfélög og önnur samtök alþýðunnar til að leggja fé í söfnunina. Jafnframt þarf að knýja á íslenska ríkisvaldið að veita BBS fjárhagslega aðstoð. Þetta sýnir okkur, að verkefnin eru nóg.

Sp.: Hvað vilt þú segja um framtíð Víetnam-nefndarinnar - nú þegar gjörvallt Víetnam er frelsað?

- Fyrst um sinn munum við einbeita okkur að söfnuninni og kröfunni um að íslenska ríkisstjórnin taki frumkvæðið að formlegri viðurkenningu á BBS og Þjóðareiningarstjórn Kambódíu. Síðan verður nefndin og þau samtök, sem að henni standa, að taka sameiginlega ákvörðun um hvort nefndin víkki út starfsvið sitt með almenna and-heimsvaldasinnaða baráttu í huga. Sjálfur teldi ég slíka þróun æskilega.

Sp.: Hvað líður viðurkenningu íslensku ríkisstjórnarinnar á BBS?

- Einar Ágústsson hefur sem kunnugt er gefið frá sér einstæða yfirlýsingu um að viðurkenning á BBS hafi í raun gerst sjálfkrafa við fall Thieuklíkunnar. Ég veit ekki hvort yfirlýsing þessi lýsir meira aulahætti eða fákunnáttu, en hún fær engan veginn staðist, því sendiherra sá frá Thieu, sem afhenti E.Á. trúnaðarbréf sitt s.l. vetur var sendiherra ríkisstjórnar "Lýðveldisins Víetnam" sem nú er ekki lengur til. Það stjórnarkerfi sem þessi sendiherra var fulltrúi fyrir er ekki heldur lengur til. Því ber utanríkisráðherra að taka frumkvæði að því að stjórnmálasambandi verði komið á á milli Íslands og Lýðveldisins Suður-Víetnam. Á meðan slíkt hefur ekki gerst er ekki hægt að túlka málin öðru vísi en að íslenska ríkisstjórnin viðurkenni ekki tilvist Lýðveldisins S-Víetnam nú, frekar en á meðan Thieu sat að völdum í Saigon. Að lokum má geta þess, að ráðuneytisstjóri í utanríkisráðuneytinu lét þess getið í símtali við mig 13. maí að BBS væri alls ekki við völd í S-Víetnam, heldur "herinn." Taldi hann rétt að bíða þar til stjórnin hefði sýnt að hún væri við völd. Slík svör frá embættismanni sýna okkur að í utanríkisráðuneytinu íslenska sitja menn, sem kannski ættu betur heima á öðrum stöðum.

Íslenska þjóðin á a.m.k. að setja það skilyrði fyrir viðurkenningu sinni á utanríkisráðuneytinu að það sýni fram á að því sé ekki stjórnað frá Pentagon.

# „Hryllilegt blóðbað" í fjölmiðlunum

Eftir að frelsisherinn sigraði leppa heimsvaldastefnunnar í Kambódíu hafa fjölmiðlar borgarastéttarinnar um heim allan ekki linnt látunum - samkvæmt þeim ríkir nú hin mesta ógnaröld í landinu - "blóðbað" - "ótti og flótti" - "Pnom Penh er dauð borg" o.s.frv. - þetta eru nokkrar af þeim fyrirsögnum sem dagblöðin bjóða upp á til að "skýra" frá ástandinu.

Fréttamiðlarnir bjóða upp á margvíslegt umhugsunarefni - því er til dæmis haldið fram að "Rauðu khmerarnir" (auðvitað er það rangnefni, hreyfingin heitir í rauninni Þjóðareiningarfylking Kambódíu, skammstafað FUNK), sem eru taldir um 60.000, muni eiga í miklum erfiðleikum með þær tvær milljónir flóttamanna sem eru í Pnom Penh. En svo er okkur sagt að þeir tæmi sjúkrahúsin og reki fársjúkt fólkið út. Skynsömu fólki þætti þetta ólíklegt til að auðvelda "Rauðu khmerunum" stjórn málanna - sjúklingar eru til meiri vandræða liggjandi á götum úti en á sjúkrahúsum, ennfremur mætti ætla að það vekti reiði meðal kambódíumanna að sjá slíkar aðfarir og ekki eru þeir "meðfærilegri" eftir það. Reyndar segja vestrænu fjölmiðlarnir að nýju valdhafarnir stundi fjöldamorð - og munu þær upplýsingar koma frá sjálfum Ford bandaríkjaforseta (en hann hefur það eftir "áreiðanlegum" upplýsingum CIA) en eins og flestir vita eru bandaríkjaforsetar taldir með sannsöglustu mönnum.

Ein fréttin hljóðaði upp á að nú ætluðu nýju valdhafarnir í Kambódíu að breyta landinu í landbúnaðarland. - og þá er spurningin, hvort Kambódía var iðnaðarríki eða hjarðmannasamfélag? Hugsandi fólki þykir það einkennileg ráðstöfun í landi þar sem um 90% þjóðarinnar lifir á landbúnaði - að breyta því í landbúnaðarland.

Síðustu daga hefur það komið í ljós að allar fréttirnar um "blóðbaðið" eru uppspuni fréttamiðlanna - þeir sem upprunalega voru bornir fyrir þeim hafa borið þær til baka. En þeim fréttum - sem sýna hversu lognar fyrri fréttirnar voru - er


Morgunblaðið
Bandaríkjamenn einhuga að baki Ford:
FÖSTUDAGUR 16. MAÍ 1975
Velheppnaðar aðgerðir
Öll áhöfnin heil á húfi

Hatur Morgunblaðsins á frelsisbaráttu kúguðu þjóðanna undan oki heimsvaldastefnunnar er löngu þekkt meðal framfarasinnaðra Íslendinga. Risafréttir blaðsins um "blóðbað í Kambódíu", "innrásina að norðan" í S-Víetnam þjóna þeim tilgangi að vinna gegn stuðningi íslensk verkalýðs við alþýðu þessara landa. Morgunblaðið er hundtryggt bandarísku heimsvaldastefnunni og hefur rekið áróður fyrir hana í áraraðir. Gremja Morgunblaðsmanna var því mikil, þegar í ljós kom, að allar þeirra vonir um sigur heimsvaldastefnunnar og leppa þeirra urðu að engu. En Morgunblaðið hefur ekkert lært - og því gladdist það mjög, þegar Bandaríkin réðust aftur á Kambódíu á dögunum, undir yfirskyni björgunaraðgerða, aðgerð sem kostaði marga fallna er að mati Morgunblaðsins "vel heppnuð aðgerð".

skotið inn í greinar í dagblöðunum hér svo lítið beri á, æsifregnastíllinn sem var notaður til að "upplýsa um blóðbaðið" fær nú að víkja fyrir smáu letri.

Þetta mál afhjúpar enn einu sinni hversu falskur fréttaflutningurinn er hjá málgögnum borgarastéttarinnar. Öll þekkjum við hvernig t.d. Morgunblaðið (með fréttum frá AP o.fl.) rangfærði ætíð atburðina í Víetnam, m.a. með því að "útskýra" alla ósigra Thieu-klíkunnar með því að "innrásin að norðan" væri svo og svo umfangsmikil. Lognar fréttir um heimsástandið í blöðum borgarastéttarinnar staðfestir það aðeins, að framtíðin er ekki hennar - heldur verkalýðs og alþýðu heimsins, og að sannleikurinn þjónar þeim.

-/hh

# MÓTMÆLI GEGN ÁRÁSUNUM Á KAMBÓDÍU




Föstudaginn 16. maí efndi Víetnamnefndin á Íslandi til mótmælaaðgerða vegna árása bandarísku heimsvaldasinnanna á Kambódíu. Kröfur göngunnar og útifundarins við bandaríska sendiráðið voru: Bandaríkin burt úr Indókína - Stöðvið íhlutun USA í Kambódíu - ennfremur var krafist viðurkenningar íslensku ríkisstjórnarinnar á Bráðbirgðabyltingarstjórninni í S-Vietnam og þjóðareiningarstjórninni í Kambódíu (GRUNK). Aðgerðirnar voru vel heppnaðar þrátt fyrir að þær væru undirbúnar með stuttum fyrirvara og mistök yrðu við boðunina (Þjóðviljinn auglýsti aðgerðirnar þ. 17. maí). Bandaríska sendiherranum var afhent yfirlýsing frá Víetnamnefndinni þar sem árásirnar voru harðlega fordæmdar.



Það vakti athygli þeirra sem þátt tóku í aðgerðum Víetnamnefndarinnar, hversu viðbúnaður lögreglunnar var mikill, þ.e. við bandaríska sendiráðið. En svo til engir lögregluþjónar voru til staðar þegar það þurfti að greiða göngunni leið í gegnum umferðina. Umhyggja lögreglunnar fyrir eignum Bandaríkjastjórnar og njósnir hennar á 1. maí (sjá bls. 2) um þá sem gengu í öðrum göngum en göngu fulltrúaráðsins í Reykjavík eru dæmi um það, að lögreglan er af sama bergi brotin og hersveitir, þjóðvarnarlið og lögregla bandarísku heimsvaldasinnanna - og því er hún fulltrúi þeirra afla sem sagan hefur dæmt til glötunar.

-/hh

Frh. af bls. 3

## Lýðræðið i verkalýðsfélaginu Rangæingi

sérstaklega með það í huga, að verkamenn áttu engan fulltrúa í samninganefndinni og vissu þar af leiðandi ekkert hvað í samningunum stóð (undirstr. Sb). Þegar átti að ganga til atkvæðagreiðslu með handaupprettingu var mótmælt og farið fram á leynilega kosningu, sem endaði með því, að atkvæði féllu 142 gegn 82, þ.e. samningarnir voru samþykktir. Þetta sýnir þó það, að stór hluti hefur séð, að þessir samningar voru fyrir neðan allar hellur og engin kjarabót."

- Sp: Voru þetta sérsamningar við ykkur?

ÁÞÁ: Já, þetta voru samningar milli sigölduverkamanna og Energoprojekt.

- Sp: Þetta fellur ekki undir ASÍ-samninginn?

ÁÞÁ: Aðeins að því leyti að rammasamningurinn og láglaunabæturnar koma inní. Um það snerust raunar samningarnir, því það átti að taka þessar láglaunabætur af okkur á þeirri forsendu að staðaruppbót bæri að skoða sem laun.

- Sp: Hvað voru kjarabæturnar miklar?

ÁÞÁ: Bara láglaunabæturnar, 4900 krónur.

- Sp: Það kom fram í fréttum að þið hefðuð verið sviptir þeim?

ÁÞÁ: Það er ekki búið að greiða okkur láglaunabæturnar, sem átti að greiða frá 1. mars, á alla unna tíma. Þessar bætur eru líklega um 30-40000 krónur á mann, en meðalvinnutími er 12-14 stundir á sólarhring.

- Sp: Meira um lýðræðið?....

ÁÞÁ: Annað dæmi um lýðræði Hilmars má nefna stöðu hans á vinnustaðnum Sigöldu. Hann er hér sem yfirtrúnaðarmaður og er á þeim forsendum, að hann er kosinn af fulltrúaráði stéttarfélaganna. Verkamenn kjósa ekki aðaltrúnaðarmanninn!

Þannig lítur lýðræðið út, séð frá verkalýðnum. Hvað hefur verkalýðurinn að gera við slíkt lýðræði eða mennina, sem standa fyrir því? Ekkert: Þvert á móti hefur baráttan á Sigöldu sýnt það og sannað, að þeir menn eiga ekki heima meðal verkamanna, þeir eiga heima hjá atvinnurekendum og þangað ber að senda þá. Við skorum á verkamenn að senda hina svikulu verkalýðsforystu burt og taka málin í eigin hendur.

-/eb

### Ályktun á 1.maí

Ályktun útifundar Rauðs Framvarðar 1. maí 1975:

Alþýða Indókína sækir nú fram til lokasigurs - heimsvaldasinnarnir og leppar þeirra eru sigraðir. Þeir atburðir sem nú eru að gerast í Víetnam og Kambódíu eru endanleg sönnun þess að alþýða þessara landa stendur sameinuð - gegn yfirráðum heimsvaldastefnunnar og fyrir frelsi þjóðanna. Fórnirnar sem þessar þjóðir hafa fært eru ekki eingöngu færðar fyrir eigin frelsi - sigur alþýðunnar í Indókína hefur heimssögulega þýðingu. og mun verða fordæmi öllum kúguðum þjóðum í frelsis baráttu þeirra. Frelsun S-Víetnam og Kambódíu er mikið fagnaðarefni allra framfarasinna á Íslandi sem og um allan heim, því að sú frelsun er sönnun þess að sameinuð alþýða kúguðu þjóðanna er fær um að hrista af sér kúgunarhlekki heimsvaldastefnunnar.

Fundurinn álítur að engin haldbær rök séu til gegn því að íslenska ríkisstjórnin viðurkenni þegar í stað Bráðabirgðabyltingarstjórnina í lýðveldinu Suður Vietnam og þjóðareiningarstjórnina í Kambódíu - við krefjumst því tafarlausrar viðurkenningar á þessum stjórnum.

# Trotskyisminn og barátta kúguðu þjóðanna

Eins og við skýrðum frá í síðasta tbl. Stéttabaráttunnar þá hefur Fylkingin tekið upp trotskíska afstöðu í mörgum málum - og þ.á.m. varðandi baráttuna í Víetnam. Margir eru þeir sem átta sig ekki til fullnustu á þeirri gagnrýni sem við höfum beint að Fylkingunni í þessu máli - einnig eru margir sem skilja ekki hvers vegna marxistar-lenínistar eru svo fjandsamlegir trotskískum öflum yfirleitt. Afstaða Fylkingarinnar til Víetnammálsins (þ.e. núverandi opinber afstaða) gefur okkur tækifæri til þess að skýra út að hluta í hverju gagnbyltingarstarfsemi trotskismans felst og hvers vegna við berjumst gegn henni.

Trotskistar líta svo á að baráttan í nýlendunum sé þess eðlis.að hún leiði beinustu leið til sósíalismans, þeir afneita marxísku-lenínísku stjórnlistinni sem felur í sér "tveggja þrepa" byltingu, þ.e.a.s. að baráttan standi fyrst fyrir lýðræði undan oki heimsvaldastefnunnar en síðan fyrir sósíalisma. Í Neista (4. tbl. '75 bls. 7) kemur fram afstaðan til nýlýðræðislegu byltingarinnar: "hinn gamli frasi um að verkefni byltingarinnar í Víetnam væri nýlýðræðisleg bylting. (Þetta stéttlausa hugtak)."

Stjórnlist Þjóðfrelsisfylkingarinnar - sem hún hefur fylgt fram af festu í áraraðir - er að mati Fylkingarinnar "gamall frasi" og jafnframt "stéttlaust hugtak." Trotskistarnir líta svo á að í öllum löndum, jafnt nýlendum sem öðrum, sé aðeins eitt "þrep" í byltingarferlinu - og þar af leiðandi telja þeir að þjóðfrelsisbarátta, sem ekki hefur sósíalískt þjóðfélag sem nærtækasta takmark, ranga. Sumir hópar trotskista ganga svo langt að lýsa því að slík barátta byggi á sviksamlegri stéttasamvinnu.

Baráttan fyrir ný-lýðræði felur í sér að meginhluti þjóðarinnar, verkalýður, bændur ásamt öðrum smáborgurum og hluti borgarastéttarinnar (sá hluti sem ekki er á mála hjá erlendu öflunum) stendur sameinaður undir forystu verkalýðsins. Það er ekki farin "bein leið" til sósíalískar byltingar - enda væri það bein leið til glötunar ef ekki væri leitast við að sameina megnið af þjóðinni gegn heimsvaldasinnunum, sem eru mörgum sinnum betur vopnum búnir. Þessi "stéttasamvinna" eru því ekki svik, heldur leið til að ná markinu sem er sósíalisminn. Í stað þessarar "tvíhliða" baráttu boða trotskíistarnir einhliða leið til ósigurs.

Þessi "vinstri"-hyggja trotskistanna hefur þær afleiðingar að starf þeirra verður andsnúið baráttu Vietnam, sem þeir þó þykjast styðja. Sem dæmi má nefna afstöðu þeirra gagnvart Parísarsamningunum - sem Víetnamar sjálfir álitu vera sigur byggðan á styrkleikahlutföllunum á orrustuvellinum. Í Neista (4.tbl.) er illa dulin árás á samningana, þar segir m.a.:

"Við höfum áður bent á það í Neista að Parísarsamningarnir fólu ekki í sér skilyrðislausa uppgjöf afturhaldsins"... og ennfremur: "Það er mikilvægt að undirstrika að um leið og Parísarsamningarnir voru ávöxtur stórra sigra víetnömsku frelsishreyfingarinnar, þá varð hún um leið að gefa eftir í mörgum atriðum.

Hvað á svona vaðall að þýða. Til hvers er verið að ræða um Parísarsamningana á þennan hátt? Stefna trotskíista er "hin beina leið", þess vegna er þeim mikið í mun að geta sýnt fram á hversu takmarkaðir Parísarsamningarnir voru í stað þess að leggja sama skilning í samningana og víetnamska alþýðan sjálf, þ.e. að þeir væru mikilvægur áfangasigur. Víetnamar, hertir í eldi margra áratuga baráttu, hika ekki við að skrifa undir samning sem felur í sér málamiðlun, þeir áttu ekki von á "skilyrðislausri uppgjöf afturhaldsins" þegar þeir skrifuðu undir samningana. Þegar þjóðfrelsisfylkingin í Víetnam leitaði til stuðningsmanna sinna um allan heim til þess að krefjast þess að Parísarsamningarnir yrðu í heiðri hafðir af Saigon-klíkunni og USA-heimsvaldasinnunum, þá sagði. Fylkingin:

"Við megum aldrei takmarka stuðning okkar við Parísarsamningana eða neina aðra samninga. Kröfur þær sem Víetnamhreyfingin á að setja á oddinn í dag eru: Öll völd til BBS..." (4.tbl. Neista)

Krafan um öll völd til BBS er andstæð stefnu BBS. Ef BBS hefði fylgt stefnu Fylkingarinnar í verki myndi það hafa haft í för með sér að hún hefði sent stóran hluta af hinu svo kallaða "þriðja afli" beint yfir í herbúðir Thieus. Önnur krafa Fylkingarinnar (sjá 1.maí ávarp í 5.tbl. Neista), "Sósíalískt Víetnam" er jafn röng út frá ástandinu í dag.

Í framhaldi af þessu er rétt að fjalla ögn um starf Fylkingarinnar fyrir Víetnamnefndina nú síðustu mánuði. Í janúar þegar Víetnamnefndin setti fram kröfuna "Virðið Parísarsamkomulagið" þá vildu trotskíistarnir setja fram "Sósíalískt Víetnam" í staðinn. Mjög fáir Fylkingarfélagar studdu starfið við söfnunina sem Víetnamnefndin stendur fyrir. Í göngu "Rauðrar verkalýðseiningar" var krafan "sósíalískt Víetnam" borin. Þegar Víetnamnefndin sendi út fréttatilkynningu um söfnunina, þar sem bent var á að fénu yrði varið til uppbyggingar en ekki vopnakaupa (enda engin þörf á slíku), þá gagnrýndu trotskíistarnir í Fylkingunni nefndina fyrir að setja skilyrði um það hvernig fénu skyldi varið (í þessu sambandi er vert að skýra frá því að fulltrúar KSML(b) hafa fært fram nákvæmlega sömu gagnrýni).

Sannleikurinn er sá að nefndin setti engin skilyrði um það hvernig fénu skyldi varið (sjá í því sambandi viðtalið við Ólaf Gíslason formann VNÍ í þessu blaði).

Í stað þess að styðja heilshugar starfið til stuðnings baráttunni í Indókína sitja þessir kumpánar með krosslagðar hendur á innantómu brjóstinu og "gagnrýna" VNÍ á röngum forsendum.

Allar aðgerðir trotskíistanna afhjúpa það að stefna þeirra er sundrungarstefna sem vinnur gegn sameinaðri baráttu gegn heimsvaldastefnunni.

-/hh.



Vígorðið STÉTT GEGN STÉTT var borið fremst í göngunni. (ljósm. Stéttabaráttan/-GM)




Frá fundinum á Ráðhústorgi. Jón Daníelsson var fundarstjóri og er hann í ræðustól.




Jóhanna Þorsteinsdóttir, sjúkraliði flytur ræðu sína á fundinum.

# Eining á grundvelli stéttabaráttunnar

# Samfylking undir vígorðinu STÉTT GEGN STÉTT!

1. maí tóku Kommúnistasamtökin á Akureyri þátt í sameiginlegum aðgerðum nokkurra aðila á Akureyri, faglegra og pólitískra. Þessi samtök voru fyrir utan Kommúnistasamtökin: Einingarsamtök kommúnista (m-l), Alþýðubandalagsfélag Akureyrar, Hópur byltingarsinnaðra marxista, Félag iðnnema á Akureyri, Akureyrardeild Sjúkraliðafélags Íslands og Baráttusamtök launafólks (BSL), en allir þessir aðilar taka þátt í starfi BSL.

Auk fyrrgreindra samtaka studdu eftirtalin verkalýðsfélög á Norðurlandi Baráttugöngu 1. maí 1975 og stefnu hennar: Verkal.fél. Vaka, Siglufirði, Verkal.fél. Skagastrandar, Verkakvennafél. Aldan, Sauðárkróki, Verkal.fél. A-Húnvetninga, Verkal.fél. Húsavíkur og Verkal.fél. Raufarhafnar.

Í raun og veru höfðu BSL frumkvæðið að aðgerðunum á 1. maí, sem voru undir nafninu Baráttuganga 1. maí 1975. BSL er samfylking á grundvelli stéttabaráttunnar gegn stéttasamvinnu fyrir stéttabaráttu undir kjörorðinu STÉTT GEGN STÉTT - verkalýðsstétt gegn atvinnurekendastétt.

Í BSL sameinast fyrrgreindir aðilar á þeim atriðum, sem sameiginleg eru öllum þessum samtökum.

Starf félaga og stuðningsmanna KSML á Akureyri hefur verið geysilega mikilvægt í BSL. T.d. var það aðeins fyrir þrotlaust starf og umræðu KSML sem kjörorðið stétt gegn stétt er sett á oddinn sem mikilvæg baráttuaðferð í verkalýðsbaráttunni. Við sýndum fram á, að hver sá sem berðist gegn samfylkingunni stétt gegn stétt eða reyndi að draga úr broddi hennar, gerðist í raun bandamaður auðvaldsaflanna í verkalýðshreyfingunni. Úrslit þessara umræðna í BSL urðu þau, að kjörorðið var afdráttarlaust sett á oddinn og borið fremst í Baráttugöngunni.

Hátt í 200 manns tóku þátt í Baráttugöngunni á Ráðhústorgi. Þar fluttu ræður Jón Ásgeirsson, form. AN, Jóhanna Þorsteinsdóttir, sjúkraliði, og félagi Guðmundur Rúnar Heiðarsson. Jón og Jóhanna ræddu almennt um stéttaátökin og stéttasamvinnustefnuna eins og hún birtist okkur hvað skýrast í ASÍ og Einingarforystunni. Félagi Guðm. Rúnar talaði um heimsvaldastefnuna og sagði m.a.:

"Félagar, rauði fáninn blaktir nú yfir svo til öllu Indó-Kína. Enn einu sinni sannast orð Maós Tsetungs, leiðtoga kínverkrar alþýðu, að heimsvaldastefnan er pappírstígrisdýr. - Og það er nú þannig með pappírstígrisdýr, að þau vilja brenna.

Indó-Kína er skýrasta dæmið um það undanhald, sem heimsvaldastefnan er nú á, á öllum vígstöðvum. Í vígbúðum heimsvaldasinna ríkir nú glundroði og sundrung. Hvarvetna í nýlendunum verður auðvaldið að láta undan síga í baráttunni við frelsisöflin. Nægir í þessu sambandi að minna á uppgjöf portúgalska hersins í Afríku. Alþýða heims sér einnig, að bandaríska heimsvaldastefnan er í upplausn bæði heima fyrir og á alþjóðamælikvarða. Heima fyrir verður lögregluofbeldið og fasísku tilhneigingarnar æ sterkari, eftir því sem málstaður bandaríska fjármálaauðvaldsins verður verri og óvinsælli, en á alþjóðamælikvarða missa Bandaríkin sífellt tök sín og bandamenn þeirra snúa við þeim bakinu, en óvinir þeirra herða baráttuna gegn þeim. Þannig hefur þjóðfrelsisbaráttan í Víetnam orðið einn af hornsteinunum í þeirri frelsis- og byltingarvakningu fjöldans í nýlendunum og í heimsvaldalöndunum, sem átt hefur sér stað á undanförnum árum.

Ennfremur hefur bændamúgurinn og verkalýðurinn í löndum þriðja heimsins, sem býr við ólýsanlegar þjáningar, réttindaleysi og miskunnarlausa kúgun heimsvaldastefnunnar og leppa hennar, aftur öðlast trú á sjálfum sér og möguleikum sínum til sjálfstæðrar uppbyggingar landa sinna...

...Félagar. Risaveldin tvö, Bandaríkin og Sovétríkin, undirbúa heimsstyrjöld, samtímis því sem þau gaspra um afvopnun og frið. Hvarvetna í heiminum berst alþýðan gegn þessum höfuðóvinum mannkynsins fyrir sjálfstæði, þjóðfrelsi og byltingu. Íslensk alþýða verður að styðja hina alþjóðlegu byltingarbaráttu og berjast við hlið öreiga og alþýðu alls heimsins gegn stríðsfyrirætlunum risaveldanna. Mikilvægur þáttur í þeirri baráttu er baráttan fyrir úrsögn Íslands úr Nató. Því setjum við fram þessi vígorð: Gegn stríðsfyrirætlunum stórveldanna og Ísland úr Nató - Herinn burt."

Eftir útifundinn voru kröfuborðarnir teknir upp á ný og gengið að Alþýðuhúsinu, þar sem haldinn var innifundur. Þar söng Þórarinn Hjartarson baráttusöngva, Tryggvi Hansen kvað rímur og lesin voru upp ljóð eftir víetnömsk skáld. Lesið var upp úr verkum Ho Chi Minhs og flutt ávörp. Samþykkt var ályktun, sem birtist á öðrum stað í blaðinu og að lokum var alþjóðasöngur verkalýðsins sunginn.

Aðgerðirnar hér á Akureyri sanna, að hægt er að sameinast á grundvelli stéttabaráttunnar. Megi það verða öllu stéttvísu verkafólki og verkalýðssinnum hvetjandi til að slíkt geti orðið á fleiri stöðum en hér á Akureyri. Mikilvægt er nú eftir 1. maí, að þessi samfylking haldi sér og verði virk í enn harðnandi stéttaátökum sem framundan eru.

Væntanlega munum við skýra nánar frá BSL á næstunni í grein hér í Stéttabaráttunni.

-/GM

## Ályktun frá baráttufundi í Alþýðuhúsinu á Akureyri 1.maí

Fundurinn mótmælir kjaraskerðingarherferð atvinnurekenda á hendur verkafólki og öðrum launþegum. Verkafólk ber enga ábyrgð á þeirri kreppu, sem nú grípur auðvaldsheiminn æ fastari tökum. Orsök kreppunnar er eingöngu stjórnlaus sókn auðvaldsins í gróða. Það er skýlaus krafa verkafólks, að auðvaldið borgi sjálft þá kreppu, sem það ber ábyrgð á og noti til þess milljarðagróða þann, sem atvinnurekendur hafa haft af vinnu verkafólks á undanförnum áratugum.

Fundurinn lýsir ábyrgð á hendur ASÍ-forystunnar fyrir að kjaraskerðingum auðvaldsins hefur ekki verið mætt með baráttu. ASÍ-forystan og stéttasamvinnustefna hennar er fjandsamleg verkalýðnum. Verkalýðurinn verður að sameinast í volduga samfylkingu gegn auðvaldinu og erindrekum þess innan verkalýðshreyfingarinnar undir vígorðinu STÉTT GEGN STÉTT, verkalýðsstétt gegn atvinnurekendum.

Fundurinn ályktar ennfremur, að það sé ekki nóg að skera upp herör gegn afleiðingum auðvaldsþjóðfélagsins, það er ekki nóg að mótmæla kreppu, lækkuðum launum, fyrirhugaðri skerðingu lýðréttinda með nýrri vinnulöggjöf og yfirvofandi atvinnuleysi. Það verður að hefja baráttu gegn meininu sjálfu - það er gegn auðvaldinu og auðvaldsskipulaginu. Verkalýðurinn verður að steypa auðvaldinu og taka völdin í sínar hendur.

Fundurinn lýsir yfir eindregnum stuðningi við alla andheimsvaldasinnaða baráttu. Hinn mikli sigur víetnömsku þjóðarinnar, sem er liður í heimsbyltingu sósíalismans, er ótvírætt merki um sókn lýðræðis og byltingarafla alþýðu og verkalýðs í heiminum. Við skorum á alla lýðræðis- og andheimsvaldasinnaða íslendinga að styðja víetnömsku þjóðina í því mikla uppbyggingarstarfi, sem framundan er.

Það er skýlaus krafa, að íslenska ríkisstjórnin viðurkenni BBS tafarlaust. Mikilvægur liður í stuðningi okkar við andheimsvaldasinnaða baráttu út um allan heim er að krefjast tafarlausrar úrsagnar úr NATO og að bandaríska herstöðin á Íslandi verði skilyrðislaust lögð niður.

## Hættulegustu klofningsmennirnir

Aðgerðir fulltrúaráðsins á 1. maí eða hátíðarhöld svo að þeirra eigin orð séu notuð verða ekki beysin að þessu sinni. Til að trekkja að, nota þeir 100.000kr. af blóðpeningum þeim sem þeir pressa úr verkamönnum til að kosta dýrt risnuhald sitt, og kveðja til Guðrúnu Á. Símonar. Fyrirætlun þessara stéttsvikara er að fylkja verkamönnum undir merki auðvaldsins og hagsmuni þess á 1. maí. Hátíðahöldum þeirra er beint til höfuðs samfylkingu verkalýðs gegn auðvaldinu. Hættulegustu klofningsmennirnir í röðum verkalýðsins eru einmitt þessir "sameinumst allir menn".

EINANGRUÐU KLOFNINGSMENNIRNIR

Hér á Akureyri eru starfandi samtök sem kalla sig KSMLb. Þeir, sem standa að þessum samtökum er lítil klíka sem klauf sig út úr KSML í fyrravor.

Einkennandi fyrir þessi samtök er einangrunarstefna þeirra. Þegar B.S.L. bauð þeim að taka þátt í sameiginlegum aðgerðum á 1. maí höfnuðu þeir því boði með þögninni og hafa þar með hunsað samstöðu þá sem náðst hefur meðal aðildarfélaga að Baráttugöngu 1. maí um vígorð gegn stéttasamvinnu, kjaraskerðingum og arðráni.

Þess í stað hyggjast KSMLb ganga sérgöngu undir nafninu Rauður framvörður en því nafni stela þeir frá KSML, sem hefur gengið og gengur enn undir þessu nafni á 1. maí ár hvert.

Þetta klofningsbrölt KSMLb ber að fordæma. Í stað þess að taka þátt í sameiginlegum aðgerðum 1. maí velur þessi klíka "náttúruskoðunarferð" niður á eyri.

1. maí er enginn afmælisdagur, hann er baráttudagur. Því skorum við á verkafólk að taka þátt í aðgerðum B.S.L. á 1. maí og hunsa með því algjörlega klofningsbrölt KSMLb klíkunnar og hátíðarhöld mútuþega auðvaldsins.

STUÐNINGSDEILD KSML



Klofningsbrölt - Tólf manns tóku þátt í göngu KSML(b).

# 1. MAÍ ÁVARP VERKALÝÐSFÉLAGA Á NORÐURLANDI

Þau Norðlensku verkalýðsfélög, sem standa að útgáfu þessa 1. maí ávarps leggja áherslu á alþjóðlegt eðli verkalýðshreyfingarinnar. Stéttabaráttan á Íslandi er ekkert einangrað fyrirbæri án tengsla við umheiminn. Vinnandi alþýða um heim allan á samleið í baráttunni við arðráns- og kúgunaröflin. Norðlensk alþýða lýsir fullum stuðningi við baráttu undirokaðrar alþýðu hvar sem er í heiminum.

Þessa dagana eru vonir snauðra bænda og verkamanna í löndum Indókína að rætast eftir áratuga fórnfúsa baráttu þeirra fyrir frelsi sínu. Við fögnum sigri þeirra og lýsum fyllsta stuðningi við baráttu þjóðfrelsisaflanna og lítum svo á, að raunhæfasti stuðningurinn sem við getum veitt þeim, og öðrum sem berjast gegn tilraunum auðstéttanna til að drottna yfir heiminum, sé að berjast fyrir því að Ísland verði herlaust og vopnlaust land, utan allra hernaðarbandalaga.

Fyrir rösklega ári voru gerðir viðamiklir kjarasamningar, er tryggja áttu verulega bætt kjör launastéttanna um næstu tvö ár.

Atvinnurekendum hefur tekist að beita ríkisvaldinu, til þess að koma í veg fyrir, að þeir giltu út tilætlaðan tíma og ýmis veigamestu ákvæði þeirra voru numin úr gildi, þegar á fyrstu mánuðum eftir undirskrift.

Ríkisvaldið hefur með pólitískum aðgerðum flutt stórfé frá verkalýðsstéttinni til atvinnurekenda. Hver gengisfellingin eftir aðra, ásamt hvers kyns kjararánsaðgerðum hafa dunið á alþýðuheimilunum og þess gætt sem rækilegast, að verkafólk fengi einungis smánarbætur fyrir.

Þessu til viðbótar hefur svo dregið upp alvarlegar blikur í atvinnumálum verkafólks á landsbyggðinni, þar sem mjög illa horfir nú um margvíslegar framkvæmdir, sem áður voru fyrirhugaðar og ríkisstjórnin leggur alla áherzlu á stórauknar fjárfestingarframkvæmdir á Faxaflóasvæðinu.

Við þessar aðstæður hefur verkalýðshreyfingin nýlega gengið til kjarasamninga við atvinnurekendur og ríkisvald. Niðurstaða þeirra samninga, svokallað „bráðabirgðasamkomulag", er algerlega óviðunandi og felur í sér viðurkenningu á þeim fjármagnsflutningum, sem ríkisstjórnin hefur beitt sér fyrir, frá launþegum til atvinnurekenda.

Það ástand í gjaldeyris- og viðskiptamálum, sem notað hefur verið til árása á kjör launafólks, er öðru fremur til komið vegna þess, að haldið er í fjarstæðukenndar kenningar um svokallað „viðskiptafrelsi", sem í reynd er ekki annað en frelsi fjársterkra milliliða til að græða á neyslu almennings, hefur leitt það af sér, að gjaldeyri, sem alþýðan hefur skapað með vinnu sinni, hefur að stórum hluta verið eytt í algerlega ónauðsynlega neyslu.

Bráðabirgðasamkomulagið tekur því mið af efnahagsástandi, sem andstæðingar verkalýðsstéttarinnar hafa skapað í því skyni að auðgast á kostnað verkalýðsins. Samkomulagið þarf að verða verkafólki víti til varnaðar, því það vitnar um það, hvað getur gerst, þegar forystumenn verkalýðshreyfingarinnar hafa ekki samband við hið almenna launafólk, og það heldur ekki vöku sinni sem skyldi. Áframhaldandi sinnuleysi um brýnustu hagsmunamál mun enn leiða yfir almenning ný félagsleg og efnahagsleg vandamál.

Þær starfsaðferðir, sem ríkjandi hafa verið við gerð kjarasamninga eru rangar og eiga sinn stóra þátt í að koma í veg fyrir, að viðunandi árangur náist. Allar tillögur atvinnurekenda um breytingar á vinnulöggjöfinni hníga í þá átt, að staðfesta með lögum gildandi vinnubrögð og draga úr möguleikum hins almenna félaga, til að hafa áhrif á gang mála.

Í stað fámennrar samninganefndar, er hefur samningsrétt fyrir heildarsamtökin, ber að samræma aðgerðir hinna fjölmörgu aðila innan verkalýðshreyfingarinnar, þannig að ítrasta, félagslegum styrkleika verði náð. Verkalýðshreyfingin hefur nægum mannafla á að skipa til að annast samningsgerð og styrkur hvers og eins verður því meiri sem hann er í betri tengslum við þá sem hann er að vinna fyrir.

Gegn hverri tilraun atvinnurekenda til að skerða samnings- og verkfallsréttinn, ber verkalýðsfélögum að snúast af fullri hörku og einurð, þar sem hér er um að ræða grundvallarréttindi frjálsrar verkalýðshreyfingar.

Verkalýðshreyfingarinnar bíður nú það erfiða verkefni, að endurheimta að fullu þann kaupmátt launa, sem af henni hefur verið rænt, með hvers konar kaupránsaðferðum. Verkalýðsfélögin, sem að þessu ávarpi standa, heita hvert öðru fyllsta stuðningi, í þeirri baráttu, sem framundan er, og þau skora á vinnandi fólk um land allt, að mynda órofa samstöðu, til að fá vilja sínum framgengt. Grípi verkalýðsstéttin ekki í taumana nú og sýni afl sitt, blasir sú hætta við heildarsamtökum alþýðunnar, að verða algerlega samvaxin og samábyrg því þjóðfélagi, sem sífellt kallar á ný og ný átök milli vinnandi alþýðu og atvinnurekenda, vegna andstæðra hagsmuna þessara afla. Slíkt má ekki verða hlutskipti verkalýðsins, sem þegar til lengdar lætur, getur ekki sætt sig við neitt minna, en að þessu ranglæti verði útrýmt og upp verði tekið fyrirkomulag, þar sem valdið er í höndum verkalýðsins sjálfs.

Í 1. maí nefnd Verkalýðsfélagsins Vöku ,Siglufirði:
Óskar Garibaldason, Jóhann G. Möller, Flóra Baldvinsdóttir, Kristján Elíasson, Erna Rósmundsdóttir, Steinunn Bergsdóttir, Ólína Hjálmarsdóttir, Ólafur Magnússon, Vilhelm Friðriksson, Signý Jóhannesdóttir.

Í stjórn Verkalýðsfélags Skagastrandar:
Kristinn Jóhannsson, Kristján Guðmundsson, Grétar Haraldsson, Guðbjartur Guðjónsson.

Í stjórn Verkakvennafélagsins Öldunnar, Sauðárkr.:
Aðalheiður Árnadóttir, Sigríður Jónsdóttir, Lára Angantýsdóttir, Sigurlaug Sveinsdóttir.

Í stjórn Verkalýðsfélags A-Húnvetninga, Blönduósi:
Pétur Pétursson, Jón Hannesson, Jón Stefánss.

Í stjórn Verkalýðsfélags Húsavíkur:
Kristján Ásgeirsson, formaður.

Í stjórn Verkalýðsfélags Raufarhafnar:
Jósep Kristjánsson, formaður.

# 1.MAÍ REYKJAVÍK

1. maí í ár einkenndist hvarvetna af glæsilegum sigrum kambódísku og víetnömsku þjóðanna yfir bandarísku heimsvaldastefnunni og leppum þeirra. Reykjavíkurdeild Kommúnistasamtakanna marxista-lenínista, sem í ár skipulögðu aðgerðir RAUÐS FRAMVARÐAR eins og í fyrra, helguðu eina deild göngunnar í Reykjavík baráttu kúguðu þjóðanna fyrir frelsi og sjálfstæði og baráttunni gegn stríðsundirbúningi risaveldanna. Meðal krafna í þessari deild voru: Slítið sambandinu við Saigon - Viðurkennið BBS! og Gegn stríðsfyrirætlunum risaveldanna USA og USSR - Ísland úr NATÓ!

Rauðum framverði var skipt í þrjár deildir, en hinar deildirnar tvær voru helgaðar hagsmunabaráttu verkalýðsins og baráttunni fyrir myndun kommúnísks verkalýðsflokks á Íslandi. Má nefna vígorð eins og Gegn atvinnuleysi og verðbólgu - Látum auðvaldið borga! og Burt með ASÍ-broddana - Lifi sjálfstæð skipulagning verkalýðsins!, sem tilheyrðu fyrrnefndu deildinni, en þeirri síðarnefndu voru helguð vígorðin Stétt gegn stétt! Lærum af stéttabaráttunni og gerum þekkingu okkar að vopni til flokksmyndunar! svo aðeins fáein séu nefnd.

Ekki tókst að mynda samfylkingu í Reykjavík að þessu sinni, eins og á Akureyri, svo sem lesa má um hér annars staðar í blaðinu. Ástæðurnar fyrir því voru fyrst og fremst sundrungarstarfsemi trotskýistana í Fylkingunni. Að öðru leyti vísast hér til greinar í 4. tbl. Stéttabaráttunnar, þar sem nánar er fjallað um þetta mál.

Gangan lagði af stað frá Hlemmtorgi og var gengið niður í miðbæ, þar sem haldinn var útifundur á bílastæðinu fyrir framan Þórshamar. Þegar mest var í göngunni, en alltaf bættist í hana jafnt og þétt, voru 4-500 manns, en allt að þúsund á útifundinum, þegar mest var þar. Á útifundinum voru fluttar þrjár ræður, en auk þess kom sönghópur samtakanna fram og flutti nokkra verkalýðssöngva. Ræðumenn voru félagi Konráð Breiðfjörð Pálmason, iðnverkamaður, og fjallaði hann um svikula starfsemi ASÍ-forystunnar og þá leið, sem verkalýðurinn yrði að fara í kjarabaráttunni; félagi Soffía Sigurðardóttir, iðnverkakona, er fjallaði um baráttu kúguðu þjóðanna í ræðu sinni og andheimsvaldasinnaða baráttu gegn stríðsundirbúningi Bandaríkjanna og Sovétríkjanna; félagi Gunnar Andrésson, rafvirki, er talaði um nauðsyn kommúnistaflokks sem forystuafls öreigastéttarinnar í harðnandi stéttaátökum og sósíalísku byltinguna sem rökrétta afleiðingu þeirra.

Um kvöldið héldu Kommúnistasamtökin svo innifund í Lindarbæ og var þar ýmislegt til skemmtunar og fróðleiks, s.s. upplestur, söngur og ræðuflutningur. Félagi Hjálmtýr Heiðdal flutti þar ræðu um baráttu víetnamskrar alþýðu og sigur hennar yfir einu mesta herveldi mannkynssögunnar. Þá var safnað undirskriftum til áskorunar á ríkisstjórn Íslands um að viðurkenna þegar í stað Bráðabirgðabyltingarstjórnina í Suður-Víetnam og fé safnað til styrktar henni við uppbyggingu landsins.

Ef bornar eru saman göngur KSML í ár og í fyrra má greinilega merkja fylgisaukningu við kommúnismann og þá pólitík sem KSML standa fyrir. Sundrungar- og klofningsstarfsemi ýmissa hópa og viðleitni þeirra til að auglýsa sig í nafni marxismans-lenínismans hefur ekki orðið til þess að veikja samtök okkar og draga úr fylgisaukningu þeirra - heldur þvert á móti haft í för með sér þróun í skipulaginu og pólitíkinni, jafnframt því sem æ fleiri snúa baki við þingræðispólitík Alþýðubandalagsins og loddarabrögðum verkalýðsforystunnar og stilla sér við hlið kommúnismans. Sá gífurlegi fjöldi, sem var við útifund "Rauðrar verkalýðseiningar" er engan veginn dæmi um vinsældir Fylkingarinnar og trotskýismans, heldur ber því aðeins vitni, að sá fjöldi, sem treyst hefur á umbótastarfsemi verkalýðsforystunnar er óðfluga að týna tölunni. Slíkt ætti aðeins að kenna okkur að færa þessari óánægju pólitíska meðvitund og það skipulagslega afl, sem eitt er fært um að leiða verkalýð og vinnandi alþýðu til sigurs yfir hinu rotnandi auðvaldi - kommúnískan byltingarflokk.

-/SJÓ

# 1.MAÍ NESKAUPSTAÐ

KSML höfðu ekki sjálfstæðar aðgerðir á 1. maí í ár. Tókst nefnilega samkomulag við verkalýðsfélögin um óformlega aðild okkar að fundi þeirra. Einn ræðumannanna er þátttakandi í námshóp samtakanna hér. Einnig fengum við tekið upp sem eitt af vígorðum dagsins: Stétt gegn stétt, verkalýðsstétt gegn atvinnurekendastétt.

Fundurinn sjálfur einkenndist af miklum baráttuhug. Mjög fjölmennt var, öfugt við það sem hefur verið undanfarin ár. Ræðumenn gagnrýndu harðlega verkalýðsforystuna og sérlega stéttasamvinnu ASÍ-broddanna. Jafnframt bentu þeir á að verkalýðsstéttin yrði að taka völdin í þjóðfélaginu til að losna undan kúgun og arðráni, eða eins og segir í 1. maí ávarpi verkalýðsfélaganna í Neskaupstað:

"Þessu má verkalýðshreyfingin ekki una" (þ.e. stefnu verkalýðsforystunnar). "Hún þarf að hefja sinn hernað á hendur fjendum sínum og reka þá af höndum sér. Hún þarf að taka í sínar hendur yfirráð yfir atvinnutækjunum og ríkisvaldinu. En til þess að svo megi verða þarf verkalýðurinn að standa sameinaður. Verkalýðurinn má ekki láta þá blekkingu sundra sér að kjarabarátta og pólitísk barátta séu sitt af hvoru tagi."

En sigrar alþýðunnar í Víetnam og Kambódíu settu einnig sérlegan hátíðarbrag á daginn, í fundarlok söfnuðu félagar í KSML 20.000 kr. í söfnun Víetnam-nefndarinnar.

Áætlað hafði verið að hafa göngu en vegna veðurs dagana áður var hætt við það, því miður.

-/MS - Nesk.

# 1.MAÍ Á HELLISSANDI



Á baráttudegi verkalýðsins 1. maí efndu Rauður framvörður og verkafólk á Hellissandi til göngu og fundar. Gengið var undir rauðum fánum og borðum með áletrunum: "Stétt gegn stétt", "Niður með ASÍ-broddana", "Lifi sjálfstæð skipulagning verkalýðsins", "Gegn vinnuþrælkun og arðráni", "Öreigar og alþýða heimsins sameinist í baráttu gegn heimsvaldastefnu og sósíalheimsvaldastefnu". Meðvitandi þátttakendur göngunnar voru um 30 auk þess um tveir tugir upprennandi æsku. Að göngu lokinni var haldinn baráttufundur í félagsheimilinu Röst. Á fundinum voru um 70 manns eftir því, sem ljósmyndir herma, en vitað er um 1 mann, sem faldi sig undir stól á meðan á myndatöku stóð. Er það glöggt dæmi um þær smáborgaralegu sálir er fylkja sér undir merki sósíaldemókratismans (Alþýðuflokksins) í dag. Ræðumaður af hálfu Rauðs framvarðar var Haukur Sigurðarson verkamaður, en Haraldur Hinriksson verkamaður fyrir samstarfsnefnd verkamanna. Annað efni á fundinum var ljóðalestur tónlist, og almennur söngur. Fundarstjórn annaðist Einar Már Guðvarðarson. Fundurinn samþykkti eftirfarandi tillögur:

1. Til baráttu gegn gerðardómum og vinnulöggjöf auðvaldsins. 19 með, móti 2.
2. Gegn atvinnuleysi og verðbólgu. Með 26, móti 0.
3. Gegn stéttasamvinnu í verkalýðsfélögunum-lifi sjálfstæð skipulagning verkalýðsins. Með 19, móti 8.
4. Fullt jafnrétti kynja á öllum sviðum. Með 33, móti 1.

Þessar tölur sýna að hlutleysi hefur verið töluvert miðað við fundarsókn. En þátttakan í göngunni og á fundinum bendir ótvírætt til, að undangengar árásir verkalýðsforystunnar á laun og rétt verkalýðsins hefur vakið hann til umhugsunar.

Áður en samstaða náðist með Rauðum framverði og verkafólki höfðu stuðningsmenn KSML leytað eftir samstarfi við forystu verkalýðsfélagsins Aftureldingar um undirbúning aðgerða á 1. maí. Í svarbréfi félagsins, þar sem allri aðstoð eða samstarfi við stuðningsmenn KSML er hafnað, ásamt ræðu þeirri, sem formaður þess hélt utan dagskrár á fundinum kemur glöggt fram það vonleysi og sú vantrú, sem forystan ber til sjálfstæðrar skipulagningar verkafólks.

Félagar verkamenn, látum ekki verkalýðsforystuna blekkja okkur lengur. Sýnum samstöðu-fylkjum okkur undir merki kommúnismans á Íslandi í dag.

Án byltingarsinnaðrar fræðikenningar engin byltingarsinnuð hreyfing.

Stuðningsmenn KSML, Hellissandi

## SKOÐANIR TVEGGJA VERKAMANNA Á HELLISSANDI

Einn tíðindamaður Stéttabaráttunnar á Snæfellsnesi átti nýlega viðtal við tvo verkamenn á Hellissandi um ástandið í verkalýðsmálum á Hellissandi. Verkamennirnir, Haukur Sigurðsson og Sigfús Almarsson, eru báðir stuðningsmenn KSML.

Sp.: Hver eru viðbrögð verkafólks hér á Hellissandi gagnvart málflutningi kommúnista, Haukur?

Upphaflega litu menn málflutninginn hornauga og margir gera það enn í dag. En samt sem áður sýna staðreyndir, að fjöldi þeirra verkamanna, sem hafa vaknað upp af vondum draumi kjaraskerðinga og launaþjófnaðar ASÍ-forystunnar og vinnuveitenda, eykst stöðugt. Það eru þeir verkamenn, sem hafa tekið málflutningi okkar eins og vera ber.

Sp.: Sigfús, hver er reynslan af 1. maí aðgerðunum?

Reynslan er sú, að fundarsókn var mjög góð og bendir til þess, að verkamenn séu að leita að einhverju leiðandi pólitísku afli í baráttunni fyrir bættum lífskjörum. Verkafólk hefur engu að tapa, en allt að vinna, og það gerir það með því að berjast við hlið Kommúnistasamtakanna m-l.

Sp.: Hvað getur þú sagt um ástandið í verkalýðsfélaginu hér á staðnum, Haukur?

Við verðum að meta ástandið út frá því, hvernig það var áður. Það er ekki lengra síðan en 2-3 mánuðir, að verkalýðsfélagið var í algjöru lemstri. Núverandi formaður þess, sem var kjörinn fyrir stuttu, hefur unnið mikið endurreisnarstarf fyrir félagið. En gallinn er samt sá, að verkalýðsfélagið hér er á sama grundvelli og önnur verkalýðsfélög í landinu. Þar á ég við, að stéttasamvinna er tekin fram yfir hagsmuni verkalýðsins. Ég tel, að verkalýðsfélögin geti aldrei náð varanlegum árangri, nema þau starfi á kommúnískum grundvelli, því að baráttan stendur á milli verkalýðsstéttarinnar og borgarastéttarinnar.

Sp.: Og í lokin, Sigfús, hvernig hyggist þið þróa áfram starfið hér?

ÞRÓA? Með því að róa að því, að hér verði áframhaldandi uppbygging á stuðningsdeild innan samtakanna KSML.

# ÞJÓÐAREIGN ER EKKI FYRIR ALMENNING



Lögreglan vaktar tröppurnar á Þórshamri.

Kommúnistasamtökin marxistar-lenínistar héldu sem kunnugt er fund við Þórshamar á 1. maí. Þar sem Þórshamar er undir yfirráðum Alþingis, þurfti að fá leyfi fyrir staðnum og eins fyrir afnotum af rafmagni úr húsinu fyrir hátalarakerfið. Leyfisveiting Alþingis er nánast formsatriði. Í fyrsta lagi má benda á, að fundir hafa verið haldnir á þessum stað og í öðru lagi má benda á, að Fylkingin, undir nafni Rauðrar verkalýðseiningar, fékk rafmagn frá Miðbæjarskólanum, opinberri byggingu, og ASÍ fékk rafmagn frá Útvegsbankanum, sem er opinber bygging.

En annað kom á daginn. Þegar fulltrúi KSML hafði gert sér þrjár ferðir niður í þing og alltaf sagt að koma seinna, var loks kominn úrskurður. Hann var sá, að ekkert rafmagn fengist og ræðumenn samtakanna fengju ekki að stíga upp í tröppurnar á Þórshamri.

Forsetar þingsins ráða þessu. Meðal þeirra varð ágreiningur, en forseti Sameinaðs þings, Ásgeir Bjarnason, úrskurðaði, að samtökin fengju ekki leyfið. Ástæðan: hann vildi ekki láta kjósa um málið milli forsetanna. Sem sagt: lýðræðisleg atkvæðagreiðsla er ekki í neinu uppáhaldi hjá þinginu.

Tveir þingmenn öðrum fremur voru þó á móti leyfisveitingunni. Það voru þau Ellert B. Schram og Ragnhildur Helgadóttir. Ellert gaf þá skýringu, að hann vildi ekki að þingið styddi KSML, né neina pólitíska flokka, eins og það hét. Sem sagt: Útvegsbankinn styður ASÍ og Menntamálaráðuneytið eða yfirboðarar MT styðja Fylkinguna, en Alþingi styður engan flokk.

Samtökin ákváðu samt sem áður að halda fundinn þarna, án þess þó, að koma við tröppurnar eða nota rafmagn Alþingis. Alþingi á ekkert í gangstéttinni né getur það bannað fólki að vera á bílastæðinu. En kvöldið fyrir 1. maí klagaði Ragnhildur Helgadóttir í lögregluna, að KSML ætluðu að halda fund við Þórshamar. Varð því úr, að fundurinn var haldinn úti á bílastæðinu við mun verri aðstæður.

Þetta sýnir okkur, að hið margrómaða lýðræði er einungis eign borgaranna sjálfra. Það er ekki til, þegar verkalýðurinn er annars vegar, eða þá að borgararnir búa til einhverja túlkun á lýðræðinu.

Þetta minnir okkur einnig á, að standa vel á verði gegn hvers konar brotum á skoðana- og fundafrelsi. Þjónar borgaranna á þingi og annars staðar munu í framtíðinni skerða þessi réttindi eða reyna það. Þeim má aldrei takast það.

-/eb

# 30 ár frá lokum heimsstyrjaldarinnar



Voru það brjálæðislegar fyrirætlanir Hitlers og Mussólinis sem hrundu heimsstyrjöldinni af stað - eða lágu aðrar orsakir að baki?

Þann 9. maí s.l. voru liðin 30 ár síðan blóðherir nasismans gáfust upp fyrir sameinaðri framsókn sovéska rauða hersins úr austri og bandamanna úr vestri. Þar með lauk áfanga í þróunarsögu mannkynsins með stórsigri alþýðunnar og kommúnismans en algerum ósigri fasismans. Í kjölfar heimsstyrjaldarinnar fylgdu uppreisnir og byltingar um alla Austur-Evrópu, fjölmörg lönd þriðja heimsins heimtu þjóðfrelsi og hin þýðingarmikla bylting í Kína rak lokahnútinn á glæsilega sigra sósíalismans. En síðari heimsstyrjöldinni fylgdi ekki friður. 'Svo lengi sem heimsvaldastefnan hefur ekki verið upprætt er friður óhugsandi í heiminum. Gagnbyltingar-og kúgunarhernaður heimsvaldasinna í öllum heimshlutum hefur haldist óslitinn allt til dagsins í dag. Og heimurinn hefur þróast í skugga nýrrar heimsstyrjaldar æ síðan, skugga sem verður æ myrkari.

## Heimsstyrjöldin-barátta heimsvaldasinna um heimsyfirráð.

Heimsstvrjöldin var ekki verknaður brjálaðra einræðisherra eða misskilinna snillinga, eins og borgaraleg sögutúlkun lætur í veðri vaka. Heimsstyrjöldin var framhald af þeim pólitísku deilum og togstreitum sem einkennt höfðu allt tímbilið frá lokum fyrri heimsstyrjaldarinnar, hún var raunverulega barátta heimsvaldaríkjanna um nýja uppskiptingu heimsins í áhrifasvæði - barátta um heimsyfirráð. Erjur heimsvaldaríkjanna, sem framan af birtust í tollastríði, deilum um efnahagsyfirráð í nýlendunum og diplómatískum þvingunaraðgerðum, snerust upp í vopnuð átök um völdin í heiminum. Þetta er raunveruleg orsök heimsstyrjaldarinnar. Bandaríkin og vesturveldin héldu framan af að sér höndum, á meðan þýsku nasistarnir réðust gegn hinum sósíalísku Ráðstjórnarríkjum. Aðstoð bandamanna við Sovétríkin, sem Morgunblaðið gumar af, hófst ekki fyrr en sýnt var að nasistarnir myndu bíða ósigur. Eftir hinn glæsilega sigur rauða hersins við Stalíngrad í ársbyrjun 1943, snerist vígstaðan nasistunum í óhag og þá fyrst hófu bandaríkjamenn vopnaframleiðslu sína fyrir alvöru og köstuðu sér út í styrjöldina. Fyrir þeim vakti, að koma í veg fyrir að Sovésku herirnir tækju allt Þýskaland og tryggja þannig, að sósíalísk bylting í Þýskalandi fylgdi ekki í kjölfar ósigurs nasismans. Ýmsir afturhaldsmenn halda því fram að vopnasendingar Bandaríkjanna til Sovétríkjanna hafi ráðið úrslitum, styrjöldin hafi unnist vegna vopnabúnaðarins og heraflans. En þetta er alrangt. Vopnin eru að vísu nauðsynleg, en fylgi og skipulagning alþýðunnar er afgerandi í sérhverri styrjöld, einnig heimsstyrjöldum. Þannig gáfust japönsku hernaðarfasistarnir t.d. ekki upp þann 8. ágúst eftir að tveimur kjarnorkusprengjum hafði verið varpað á Nagasaki og Hiroshima. Uppgjöfin kom ekki fyrr en sovéski rauði herinn hafði gersigrað japönsku úrvalsherina í Mansjúríu 2. september 1945. Þannig beið bandaríska heimsvaldastefnan fullkominn ósigur í Vietnam, þrátt fyrir margfalda hernaðarlega yfirburði og ótæmandi endurnýjunarmátt. Vietnamska alþýðan sópaði bandarísku heimsvaldaherjunum í sjóinn, þrátt fyrir að þeir hefðu varpað helmingi meira magni af sprengjum á Vietnam, en samanlagt í <u>allri</u> síðari heimsstyjöldinni. Orsökin var sú, að skipulagning alþýðunnar og málstaður hennar má sín meira en allur vopnabúnaður afturhaldsins. Aðalatriðið í stríði er ekki vopnabúnaður eða stórvirkar vígvélar, heldur alþýðan. Hafi heimsvaldasinnar byrjað síðari heimsstyjöldina, lauk alþýðan henni með sigri sínum.

## Hættan á heimsstyrjöld vofir yfir í dag.

Eftir síðari heimsstyrjöldina gerðu heimsvaldasinnar örvæntingarfulla tilraun til að brjóta herbúðir sósíalismans á bak aftur í Kóreustríðinu 1950. Þó að þessi árás hafi mistekist, styrktist vígstaða heimsvaldastefnunnar árið 1956, ekki vegna hernaðarlegra yfirburða heimsvaldasinna heldur vegna svika nútíma endurskoðunarsinna í Kreml, vegna valdaráns Krúsjeffs-klíkunnar sem þegar hóf ötula endurreisn kapítalismans og breytti Sovétríkjunum í sósíalheimsvaldaríki, en alþýðulýðveldum Austur-Evrópu í nýlendur Sovétríkjanna. Afturhvarf Sovétríkjanna til kapítalismans merkti að nýr og voldugur ræningi birtist á alþjóðavettvangi, að nýr aðili hafði blandað sér í baráttuna um heimsyfirráðin. Bandaríkin höfðu eignast skæðan keppinaut og gangur alþjóðamála hefur meir og meir einkennst af samstarfi og samkeppni þessarra tveggja risavelda. Annað veifið semja þau um uppskipti herfangsins, ráða örlögum heilla þjóða og heimsálfa eftir hagsmunum sínum, en hitt veifið svíkjast þau aftan að hvoru öðru og ógna hvort öðru með hernaði. Útþensla sovésku sósíalheimsvaldasinnanna á N-Atlantshafi, Indlandsskaganum og fyrir botni Miðjarðarhafs, krafa þeirra um undirgefni Norðurlanda við hagsmuni sína - allt eru þetta beinar ógnanir við heimsfriðinn. Í dag hefur myndast voldug samfylking landanna í þriðja heiminum undir forystu hins sósíalíska Kína, gegn styrjaldarógnunum risaveldanna. Það eru verkefni íslenskra kommúnista að knýja íslensku ríkisstjórnina til að draga sig út úr hernaðarbandalögum risaveldanna og styðja samfylkingu þriðja heimsins gegn styrjaldarhættunni. Eftir 30 ára heimsvaldafrið eru blikur á lofti, sem benda til þess að mannkyninu verði einu sinni enn att út á vígvellina í þágu heimsvaldagróðans og afturhaldsins. Þess vegna skulum við minnast 30 ára afmælis heimsvaldafriðarins með því að herða árvekni okkar og baráttu gegn styrjaldarógnunum risaveldanna tveggja - Bandaríkjanna og Sovétríkjanna.

-/KG.

# Nýtt stríð fyrir botni Miðjarhafsins?

Þróun mála fyrir botni Miðjarðarhafs bendir til þess að stríð geti á ný brotist út áður en langt um líður. Hvernig er staðan í dag hjá deiluaðilum, og hvernig er hugsanlegt að stríðið fari? Þessari grein er ætlað að varpa ljósi á, hvernig málin standa.



Stríðsbrölt Ísraelsmanna vitnar um væntanlegt stríð í Mið-austurlöndum.

Ráðstefna helstu leiðtoga arabaríkjanna sem haldin var í Marokkó nýlega, samþykkti að láta þeim arabalöndum sem eru í framlínunni í baráttunni gegn Ísrael - Sýrlandi og Egyptalandi, í té 2 billjónir dollara til vopnakaupa og hernaðaruppbyggingar. Frelsissamtök Palestínuaraba PLO, fengu 50 milljónir dollara frá arabalöndunum til nota í baráttunni gegn zíonismanum. Jasser Arafat sagði við ráðstefnugesti: "Dagurinn í dag markar tímamót í sögu Palestínu og þjóða araba... Við munum halda baráttunni áfram þar til við hittumst í Jerúsalem, brosandi eins og í dag."

Það sem helst skiptir máli í stríðsundirbúningi beggja hliða, er spurningin um tímann. Arabalöndin tala um að heyja "þreytustríð," þar sem yfirburðir arabalandanna hvað snertir mannafla, birgðir og olíu nýtur sín til fulls. En bardagaaðferð Ísrael er eins konar leifturstríð, þar sem hægt væri að eyðileggja framlínu Sýrlands og Egyptalands áður en langtímayfirburðir arabalandanna fá að njóta sín.

Í yfirlýsingu sem utanríkisráðherra Ísraels, Jígal Allon gaf í New York sagði hann að Ísrael ætlaði sér að ákveða hvers konar stríð yrði háð. "Við látum ekki þreyta okkur" sagði hann, og bætti við að Ísrael myndi samstundis gera árás, þar sem öllum hernaðarkrafti yrði beitt, reyndu arabaríkin að ógna landinu. Leiðtogar Ísraels hafa opinberlega sagt, að í næsta stríði yrðu það Ísraelsmenn sem fyrstir yrðu til árása.

Höfuðverkur ísraelska hersins er skortur á mannafla. Íbúafjöldi Ísraels er 3,2 milljónir, sem er lítið samanborið við 36 milljón íbúa Egyptalands og 6,6 milljón íbúa Sýrlands. Hingað til hafa ísraelsmenn treyst á tiltölulega lítið mannfall hjá sér, samanborið við fallna og særða hjá aröbunum, en Októberstríðið kenndi ísraelsmönnum það, að sá tími þegar hermenn þeirra slátruðu óþjálfuðum hermönnum araba samkvæmt áætlun, var liðinn. Goðsögnin sem ísraelsmenn höfðu búið til um algera hernaðarlega yfirburði sína og meðfætt hugleysi araba hrundi, því baráttuhugur og hreysti arabanna stóð ekkert að baki ísraelsmönnum.

## Birgðir

Varðandi aðflutninga birgða og vista til hersins, á Ísrael við mikil vandamál að stríða. Októberstríðið 1973 einkenndist af miklum og örum birgðaflutningum til beggja aðila frá stórveldunum tveim. En pólitísk þróun í Portúgal og Grikklandi hefur vakið nýjar spurningar varðandi birgðaaðflutninga til Ísrael frá Bandaríkjunum. Við loftbrúna frá Bandaríkjunum til Ísrael gegndu Asór-eyjarnar mjög mikilvægu hlutverki. Þar fengu flutningavélar bandaríkjamanna aðstöðu til að millilenda og taka eldsneyti, en sé sú aðstaða ekki fyrir hendi er ekki mögulegt fyrir flutningavélarnar að bera nema hálfan farm sökum aukinnar fluglengdar. Ríkisstjórn Portúgals, sem ræður eyjunum, er í dag að endurskoða afstöðu Portúgals til að leyfa bandaríkjamönnum nokkur afnot af eyjunum. Ennfremur hefur Portúgal í hyggju að ganga í Efnahagsbandalag Evrópu. Öll aðildarlönd Efnahagsbandalagsins meinuðu Bandaríkjunum aðgang að landssvæðum sínum við tilraunir þeirra til að flytja birgðir til Ísraels. Það er sennilegt að EBE-löndin krefjist þess að Portúgal fari að þeirra fordæmi. Meðan ekki hefur fengist niðurstaða í þessum spurningum er ekki tryggt að við birgðaflutninga til Ísraels megi treysta á aðstöðu á Asór-eyjunum. Líka hefur sambúð Portugal og USA versnað til muna eftir valdaránstilraun Spinóla og afturhaldsafla hersins. Sem kunnugt er ráku portúgalir sendiherra USA úr landi, sökum þess að þeir töldu hann hafa verið viðriðinn valdaránstilraunina. Þessi atriði gera það að verkum að mjög er óljóst hvort USA fái nokkra fyrirgreiðslu hjá portúgölskum stjórnvöldum.

Meðan á Októberstríðinu stóð, gerðu einræðisherrarnir í Grikklandi allt sem í þeirra valdi stóð til að aðstoða Bandaríkin við aðflutninga til Ísraels. Þeir leyfðu skipum úr sjötta flotanum að fá aðstöðu innan grískrar hafnsögu við Suda Bay við Krít. Um borð í þessum skipum voru þrautþjálfaðir hermenn úr landgönguliði flotans (Green Berets) sem voru reiðubúnir að ganga á land og taka þátt í stríðinu væru líkur á hernaðarósigri Ísraels. Pólitísk þróun í Grikklandi hefur leitt til þess að herforingjunum hefur verið steypt, og bíða þeir nú dóms fyrir landráð. Samkvæmt fréttum frá Grikklandi, voru það deildir úr sjötta flotanum sem hvað eftir annað kom í veg fyrir að hægt væri að senda liðsauka og vistir til kýpur-grikkja, meðan barist var þar. Bandarískar sprengjuflugvélar hótuðu hvað eftir annað að sökkva grískum skipum á leið til Kýpur, ef þeim yrði ekki snúið við. Undir þessum kringumstæðum er mjög ósennilegt að stjórnvöld Grikklands leyfi bandaríkjamönnum nokkur afnot af grísku yfirráðasvæði. Það þykir renna stoðum undir þetta, að grikkir hafa hótað að slíta öllu hernaðarsamstarfi við Bandaríkin og draga sig út úr Nató.

Sökum aukins kulda í samskiptum Bandaríkjanna og Grikklands og auknum höftum á hernaðarumsvifum á grísku landi, hafa bandaríkjamenn reynt eftir fremstu getu að fá aukna fyrirgreiðslu fyrir flota sinn á Ítalíu. En á Ítalíu er mikil andstaða gegn því að Bandaríkin blandi landinu inn í hernaðarbrölt sitt fyrir botni Miðjarðarhafs. Samkvæmt bandaríska tímaritinu Buisness Week, hefur ítalska stjórnin meinað sjötta flotanum aðstöðu til eldsneytistöku á Ítalíu. Hermálaráðuneyti Bandaríkjanna, Pentagon, hefur þurft að senda olíu til sjötta flotans allt frá austurströnd Bandaríkjanna. Það er búist við að ítalska stjórnin muni fylgja þessari stefnu í framtíðinni.

## Olíuaðflutningar til Ísrael

Enn veikari hlekkur í stríðsvél Ísraels er öflun olíu. Mikilvæg ákvörðun ráðstefnu æðstu manna arabaríkjanna var greiðsla á 150 milljón dollara til Suður-Jemen fyrir afnot til 99 ára á Perim-eyju við mynni Rauða hafsins. Egyptaland, Saudi-Arabía og Abu-Dhabi vinna í dag að því að víggirða eyjuna og koma flotasveitum fyrir þar. Tilgangurinn með því er greinilega sá, að klippa á olíusendingar til Ísraels frá Íran. Mikill hluti olíu Ísraels kemur frá Íran, en hluti frá herteknum olíulindum í Sinai-eyðimörkinni. Olíuskipin frá Íran sigla frá Persaflóa kringum Arabíuskagann til ísraelsku hafnarborgarinnar Eilat, sem er við Rauða hafið.

Með því að koma upp herstöð á Perim-eyju, ógna arabar öllum olíuaðflutningum til Ísraels.

Spurningin er því sú, hvort Ísrael geti unnið stutt stríð, áður en sú þunga pressa sem arabar hafa, fær tækifæri til að njóta sín til fulls.

Ísraelsmenn miða allt við að svo fari, og aðferð þeirra við endurhervæðinguna bendir mjög ákveðið á, hvernig þeir ætli sér að fara að því. Þannig hafa þeir lagt mikið kapp á að eignast elektrónutæki til að trufla mið eldflaugakerfis arabanna. Það kostaði ísraelsmenn mikið að þeir skyldu ekki hafa fullnægjandi rafeindatæki til að eiga við þessar eldflaugar - á aðeins þremur dögum eyddu arabar 80-100 flugvélum ísraelsmanna, 25% alls herflugflota Ísraels, ásamt mörgum þjálfuðum flugáhöfnum.

Í dag er ekki vitað hvort egyptar hafa fengið ný rafeindatæki til að halda forskoti sínu í þeim efnum. Í tilraunum sínum til að viðhalda óbreyttu ástandi fyrir botni Miðjarðarhafs hafa Sovétmenn neitað að láta araba fá nýjustu vopn þessarar tegundar, en aðeins látið þá fá varahluti í gömlu vopnin. Takist ísraelsmönnum að eyða mætti eldflaugakerfisins með rafeindatruflunum á miðunarkerfinu, mun flugher araba fá sína eldskírn í návígi. Í stríðinu 1967 eyddu ísraelsmenn flugafla egypta með leifturárásum á flugvelli og flugskýli, flugvélar egypta komust aldrei í loftið. Í dag eru herflugvélar Egypta geymdar í víggirtum skýlum, sem geta staðið af sér allar sprengjuárásir. Flugmenn egypta stóðu sig vel í þeim fáu loftárásum sem þeir lentu í í síðasta stríði, en önnur atriði viðkomandi lofthernaði, svo sem hæfni stjórnenda á jörðu niðri, og hæfni þeirra sem sjá um að hlaða byssur og setja á vélarnar eldsneyti með hraði er enn óþekkt.

Ísraelsmenn hafa nú þegar stækkað mjög skriðdrekaflota sinn, á meðan arabar hafa enn ekki náð þeirri tölu skriðdreka sem þeir höfðu fyrir stríðið. Ísraelsmenn hafa lagt mikla áherslu á að vígbúa vel með skriðdrekum og skriðdrekabyssum hertekinn Sinai-skagann, sem er mjög vel fallinn fyrir skriðdrekahernað. Þetta hefur leitt til getsaka um, hvort Ísraelsmenn hyggist verða fyrstir til í næsta stríði.

## Kjarnorkustríð?

Utanríkisráðherra Ísraels, Allon, hefur hótað því, að ísraelsmenn muni ef til stríðs kemur "beita samstundis í árás öllum hinum nýja hernaðarmætti sínum." Þetta getur ekki skoðast öðruvísi en sem ógnun um að ráðast gegn aröbum með kjarnorkuvopnum. Slíkt, ásamt beinni og óbeinni þátttöku bandaríkjamanna í stríðsrekstri ísraelsmanna, eykur mjög hættuna á því að stórveldunum tveimur lendi saman fyrir botni Miðjarðarhafs, og verði um það að ræða, er ekki að spyrja að því hvort notuð verði kjarnorkuvopn. Eins og málin standa í dag eru miklar líkur á að stórveldin blandi sér beint inn í hernaðarátökin. Kissinger hefur nú hætt öllum samningaumleitunum og er það ills viti. Slíkt gæti verið forboði bandarískrar árásar gegn aröbum. Og bandaríkjamenn kunna til verka með slík stríð, og lærimeistarinn er "friðardúfan" Kissinger. Meðan hann starfaði sem ráðgjafi Rockefellers og annarra stórauðjöfra og afturhaldsmanna var gefin út bók eftir prófessorinn, er nefnist: Utanríkisstefna og kjarnorkuvopn. Í þessari bók heldur Kissinger því fram, að það sé vel mögulegt að heyja afmörkuð kjarnorkustríð án þess að þau breiðist út. Þessi kenning er í dag með öllu óreynd. En næsta stríð fyrir botni Miðjarðarhafs gæti gefið heiminum þann ömurlega kost að sjá hvort kenning prófessorsins er rétt.

Ritstjórn Stéttabaráttunnar hvetur alla heiðarlega and-heimsvaldasinna til að vera vel á verði gagnvart árásarstefnu heimsvaldastefnunnar fyrir botni Miðjarðarhafs, og jafnframt hvetur hún öll framsýn öfl til þátttöku í þeim aðgerðum sem gerðar verða síðar á þessu ári til stuðnings baráttu araba gegn árásum heimsvaldastefnunnar.

-/OI

# Einingarsamtökin?

Fyrir rúmum þremur mánuðum birtist enn einn hópur á vinstri kantinum í íslenskum stjórnmálum, sem gerir tilkall til að reka hina einu, sönnu marxísku pólitík. Þessi hópur kallar sig Einingarsamtök Kommúnista m-l og gékk sem næst í heilu lagi úr Fylkingunni, síðastliðið haust. Margt gott má segja um þennan hóp, einkum á hann skilið hrós fyrir uppgjör sitt við trotskíistana sem nú eru alls ráðandi í Fylkingunni. En Einingarsamtökin ætluðu sér þó ekki að sameinast KSML og leggja hönd á bagga í uppbyggingu kommúnísks flokks á Íslandi, forvígismenn þeirra láta sér nægja að lýsa sameiningarmarkmiðum sínum yfir í hátíðlegum orðum, en þar fylgir hugur lítt máli. Í stað þess að vinna heilir að sameiningu allra marxista-lenínista á Íslandi, afneita þeir KSML og upphefja sjálfa sig sem einu, sönnu kommúnistana hérlendis. Þessi broslegi sjálfsþótti nær jafnvel svo langt, að þeir álíta uppgjör KSML við einangrunarsinnana sem klufu sig út úr KSML í fyrra, vera fyrir áhrif sín. En mitt í hástemmdum yfirlýsingum um að KSML sé nú að gera upp við fyrri "vinstri villur" sínar og nálgst fordyri sannleikans, þar sem þeir tróna á hásætinu, gleymist þeim að pólitík EIKm-l er enn sem komið er pappírsgögn ein og að auki byggð á fremur grunnristri bókhneigð og fræðilegum viðvaningshætti.

"Áhrif" Einingarsamtakanna á KSML

Aðeins þeir sem ekki hafa kynnt sér pólitíska þróun KSML geta ályktað sem svo, að Kommúnistasamtökin hafi gert upp við einangrunarstefnu og huglægni í vinnubrögðum í einu vetfangi, eða vegna þess að rúmur tugur fyrrver. Fylkingarfélaga hafi útnefnt sjálfa sig framverði kommúnismans á Íslandi. Þegar frá stofnun KSML ríkti hörð fræðileg barátta um stefnu samtakanna. Hugmyndir sem EIKm-l hefur gert í dag að sínum, réðu þá að ýmsu leyti afstöðu samtakanna, einkum afstaðan til stéttanna og þjóðernismálsins. En á stofnþingi KSML komu líka fram þær hugmyndir um verkalýðsfélögin og gerð ríkisvaldsins, sem upprættar voru í baráttunni gegn einangrunarsinnunum í fyrravor. Strax að loknu stofnþinginu hófust deilur innan KSML um afstöðuna til stjórnlistarinnar og verkalýðsfélaganna. Í desember 1972 er þá þegar sett fram sú afstaða, sem síðar varð ofan á. Í formála að bæklingnum "Um flokkinn" (apríl '73) dregur K.G. fram stefnu KFÍ og Komintern í fagfélagsmálum: "Innan fagfélaganna börðust kommúnistar og sameinuðu líka aðra verkamenn, sósíaldemókratíska, sem ekki fylgdu broddunum í einu og öllu, eða flokkslausa verkamenn í andstöðuhópa eða svokölluð lið. Hlutverk liðanna var að veita forystu hinum faglega andstöðuarmi, sem spratt fram í sjálfri baráttunni, fylkja verkamönnum neðan frá til baráttu á vinnustöðunum sjálfum og í verkalýðsfélögunum" (Um flokkinn, bls. 16).

Þessi afstaða óx fram og styrktist í baráttunni gegn "vinstrivillum" sem teknar höfðu verið í arf frá KFMLr, sænskum samtökum sem höfðu mikil áhrif á stefnumótun stofnþings KSML. Það er því fáránlegt að halda því fram, að stofnun EIKm-l í janúar 1975 hafi verið tilefni uppgjörsins við einangrunarhyggjuna í röðum KSML, þvert á móti var ástæðan aukin fræðileg og starfræn reynsla íslensku kommúnistanna, sem opinberaði villurnar í kenningum stofnþings KSML, um að verkalýðsfélögin væru ónýt og ekki bæri að vinna þau yfir.

Einangrunarstefnan

Einangrunararfur KSML frá Svíþjóð náði einnig til annarra mála. Í afstöðu samtakanna til samfylkingar bar framan af mjög á tvenns konar tilhneigingum, sem báðar voru rangar. Hin fyrri birtist í fjandsamlegri afstöðu til fjöldasamtaka gegn heimsvaldastefnunni, eins og t.d. Víetnam-nefndarinnar. Lengst gekk þessi fjandskapur í ársbyrjun 1973, þegar KSML gáfu út aukablað um Víetnam, sem réðst gegn tilraunum Víetnam-nefndarinnar til sköpunar breiðrar samfylkingar um málstað Þjóðfrelsisfylkingarinnar. Þá litu KSML eingöngu á Víetnam-styrjöldina sem vogarstöng fyrir uppbyggingu kommúnistaflokks á Íslandi og einangruðu sig frá lýðræðis- og andheimsvaldasinnuðum öflum, sem reiðubúin voru til að styðja ÞFF á grundvelli víetnömsku alþýðunnar. Þá var enginn skilningur fyrir því, að fullur og skilyrðislaus stuðningur við þjóðfrelsisöflin í Víetnam á breiðum grundvelli, var um leið öflugt vopn í baráttunni fyrir skipulagningu íslensks verkalýðs. En þessi ranga stjórnlist átti sér ekki langa lífdaga í KSML. Þegar um haustið 1973 er eftirfarandi sett fram í Rauða Fánanum í afstöðunni til bandalags verkalýðsstéttarinnar og annarra stétta og þjóðfélagshópa: "Að lama eða vinna til liðs við byltinguna smáborgara eða menntamenn er einnig eitt af meginverkefnum hinnar sósíalísku byltingar. Þessir millihópar milli borgara og öreiga mynda varalið, sem nauðsyn ber til að virkja. Úrslit byltingarinnar geta oltið á því, hvort þeir verða varalið gagnbyltingarinnar eða byltingarinnar" (RF. 1-2. tbl. 2. árg. okt. 1973).

Þessi afstaða lá til grundvallar þeirri breyttu afstöðu til samfylkinga yfirleitt, sem fékk yfirhöndina í KSML á síðasta ári. Þetta birtist glögglega í framkvæmd, þegar Víetnam-nefndin vaknaði af löngum dvala á 2. ára afmæli Parísarsamkomulagsins, en þá tóku KSML þátt í aðgerðum hennar.

Allsherjarsamfylking

Síðari tilhneigingin birtist í óskum um samfylkingu við allt og alla, án tillits til hagsmuna öreigalýðsins eða grundvallarreglna kommúnismans. Eftir stofnþingið 1972 voru innan samtakanna öfl, sem litu á íslenska auðvaldið (hluta þess) og alla smáborgarastéttina sem bandamenn verkalýðsins í baráttunni gegn erlendri heimsvaldastefnu. Þessi skoðun var raunar aðeins arfur frá Alþýðubandalagsforystunni og átti sér einnig fylgjendur innan Fylkingarinnar. Í dag, þremur árum eftir að KSML hafa gert upp við þessar hugmyndir, básúna foringjar EIKm-l samfylkingu allrar alþýðu og nokkurra auðherra gegn fáeinum einokunarkapitalistum. EIKm-L hafnar vígorði KSML, "stétt gegn stétt", og telja það bera vott um einangrunarstefnu. Hinir sjálfkrýndu "meistarar" stjórnmálanna í forystu EIKm-l telja sig koma auga á afdrifaríkar breytingar á eðli auðvaldsþjóðfélagsins, sem svipti verkalýðinn byltingarsinnuðu forystuhlutverki sínu að nokkru, en geri í staðinn "alla alþýðuna" byltingarsinnaða í baráttu hennar gegn einokunarauðvaldinu. Þessar afdrifaríku breytingar stafa af þróun heimsvaldastefnunnar, að mati EIK m-l.

Nútíma endurskoðun á byltingarstefnu marxismans-lenínismans

EIKm-l eru ekki ein um að sjá þessar "breytingar." Þó svo að EIKm-l vilji helst ekki hafa slíkt í hámælum og fari með það sem feimnismál, þá er ekki hægt að neita því, að þeir eiga sér volduga skoðanabræður. Á 23. flokksþingi sovésku endurskoðunarsinnanna í Kreml, segir sjálfur höfuðpaurinn, L. Brésneff, eftirfarandi lærdómsríku orð: "Aðrir þjóðfélagshópar sem eru andstæðir einokunarauðvaldinu - meginþorri bænda og menntamanna - eru að safnast meira og meira um verkalýðinn. Breið and-einokunarfylking er að skapast. Þessi þróun krefst nánara bandalags alþýðunnar og örvar baráttuna fyrir lokatakmarkinu - fyrir byltingarsinnaðri umbreytingu þjóðfélagsins fyrir sósíalismanum" (L. Brésneff, Ræða á 23. þingi KFRR(b) 1966, Moskva, bls. 21).

Og hugmyndin um and-einokunarfylkingu er ekki bara "vanhugsuð orð" sovéska sósíalheimsvaldasinnans í ræðu hans, ekki nein undantekning frá almennri línu "nýju Zaranna í Kreml." Þessi hugmynd er meginþráðurinn í endurskoðun þeirra á byltingarsinnaðri stjórnlist marxismans-lenínismans og aðalafbökunin á kenningum marxismans-lenínismans um öreigabyltinguna. Þegar Enver Hoxha, leiðtogi albönsku kommúnistanna, gagnrýnir nútíma endurskoðunarstefnuna í ræðu árið 1971, farast honum svo orð: "Skilyrðin, sem gera verkalýðsstéttina að meginaflinu í nútíma þjóðfélagsþróun, leiðandi aflið í baráttunni fyrir byltingarsinnaðri umbreytingu hins kapitalíska heims hafa ekki breyst á nokkurn hátt" (Ræða á 6. þinginu 1971, bls. 216).




Klofningurinn á vinstrikantinum fer í vöxt. Hér er sýnishorn af útgáfuefni smáhópa, sem sumir verða ekki langlífir. Það nýjasta er málgagn EIKm-l, þrátt fyrir "einingartalið" eykur þetta bara á klofninginn.

Ef forvígismenn EIKm-l álíta, að uppgjör KSML við einangrunarstefnuna innan eigin raða, eigi einhvern tíma eftir að leiða samtökin ofan í forarpytt nútíma endurskoðunarstefnu, skjátlast þeim hrapallega. KSML hafa fullkomlega hafnað þessum hugmyndum og álíta, að svo lengi sem EIKm-l hafi þær að leiðarljósi, séu EIKm-l taumdragar nútíma endurskoðunarstefnu og ekki marxistar-lenínistar. Einingarsamtökin eru fremur óspör á fræðilegar kórvillur, en hér er ástæðulaust að rekja þær nánar. Hins vegar er eftirtektarvert, að talsmenn EIKm-l hafa lýst sig ófúsa til opinskárrar baráttu gegn skoðanabræðrum sínum í Kreml.

Baráttan gegn risaveldunum

Afstaða KSML til baráttunnar gegn styrjaldarfyrirætlunum risaveldanna og alþjóðlegum kúgunaraðgerðum þeirra, felur í sér, að stofnuð verði Alþýðufylking gegn heimsvaldastefnu og fasisma, sem hefur þremur meginverkefnum að gegna:

- Baráttu gegn yfirgangi og stríðsógnunum bandarísku heimsvaldastefnunnar og sósíalheimsvaldastefnunnar í Sovét.

- Baráttu gegn aðild Íslands að hernaðarbandalögum og fyrir úrsögn úr NATÓ og brottrekstri bandaríska hersins.

- Baráttu fyrir samstöðu með þjóðfrelsis- og andfasískum öflum um allan heim.

Slík samfylking ætti að byggja á breiðum grundvelli og verða að voldugum bakhjarli fyrir byltingarbaráttu íslenska verkalýðsfjöldans.

En forvígismenn EIKm-l eru þessu ósammála í einu atriði. Þeir vilja samkvæmt ummælum þeirra sjálfra sleppa baráttunni gegn sósíalheimsvaldastefnunni í Sovétríkjunum. Og ástæðan? Sovétríkin hafa ekki verið nægjanlega afhjúpuð hérlendis ennþá til þess að hægt sé að berjast gegn þeim og þar að auki myndu "gamlir sósíalistar" ekki styðja baráttu gegn Sovét!! En þessum "riddurum samfylkingarinnar" láist að gá að því, að andheimsvaldafylking sem þessi, hefur einmitt það verkefni að afhjúpa kúgunareðli og styrjaldarógnir risaveldanna - hver ætti að gera það annars?! Þessa afstöðu er ekki hægt að skoða örðu vísi en sem undanslátt gagnvart nútíma endurskoðunarstefnunni og sósíalheimsvaldasinnunum í Sovét. Og í þessu efni nægja engar yfirlýsingar. Þær verða fundnar ámóta léttvægar og yfirlýsingar EIKm-l um "sameiningu allra íslenskra sósíalista" í einn flokk - svo lengi sem starfið felur í sér sundrungu íslenskra marxista-lenínista, með stofnun nýrra samtaka og andstöðu við einarða baráttu gegn sósíalheimsvaldasinnunum í verki.

Markmið KSML er sameining marxista-lenínista í Kommúnistaflokk

Lenín sagði eitt sinn, að án byltingarsinnaðrar fræðikenningar yrði ekki nein byltingarsinnuð hreyfing til. Því er einnig svo varið, að án byltingarflokks, sem hefur byltingarsinnaða fræðikenningu marxismans-lenínismans að leiðarljósi, verður ekki um sósíalíska byltingu né alræði öreiganna að ræða. Til þess að verkalýðsstéttin geti komið byltingarsinnuðu ætlunarverki sínu til leiðar, verður hún að sameinast undir merkjum eins stjórnmálaflokks, sem túlkar hagsmuni hennar og stendur ævinlega í fylkingarbrjósti fyrir baráttu hennar á öllum vígstöðvum þjóðfélagsbaráttunnar.

Það er markmið KSML að stofna slíkan flokk og slíkt verður ekki gert með fræðilegum yfirlýsingum eða bóklestri, heldur með fórnfúsu starfi og þrotlausri baráttu í anda marxismans-lenínismans. Fyrir KSML vakir ekki að verja kenningar sínar og hugmyndir í fræðilegri umræðu, hvað sem það kostar, heldur hitt, að reyna þær í þjóðfélagslegu starfi og sannprófa gildi þeirra. Þess vegna eru KSML órög við að játa skyssur sínar og rífa rangar hugmyndir upp með rótum, þegar raunveruleikinn hefur sýnt fram á hið rétta eðli þeirra. Marxisminn-lenínisminn er ekkert "kerfi" sem á að þröngva upp á raunveruleikann, hann er byltingarsinnuð rannsóknar- og starfsaðferð sem byggir á almennri reynslu af baráttu stéttanna í þjóðfélagsþróuninni. Þess vegna er barátta kommúnistanna fyrir byltingarflokki alls ekki fólgin í því að semja byltingarsinnaðar heitstrengingar eða skrifa doðranta um "baráttuleið alþýðunnar" heldur að beita almennri reynslu heimshreyfingar öreigalýðsins, - fræðikenningu marxismans-lenínismans - í byltingarsinnuðu starfi, og uppgötva þannig það sem er sérkennandi og þjóðlegt í stéttabaráttunni á Íslandi. Í þessu starfi mega hugmyndir og kenningar nútíma endurskoðunarstefnunnar sín einskis, þvert á móti leiða þær til sáttfýsi við borgarastéttina og afneitunar á byltingarsinnuðu forystuhlutverki verkalýðsstéttarinnar. KSML hvetja því félagana í EIK m-l til að nema og gagnrýna afstöðu sína rækilega, gera hreint fyrir dyrum sínum og hafna öllum útgáfum nútíma endurskoðunarstefnunnar.

-/KG

# Efnishyggja og hughyggja

Þegar umræður í kunningjahóp eða á vinnustað snúast að kommúnismanum, koma ósjaldan upp hinar furðulegustu myndir guðsóttans í orðsins fyllstu merkingu. Þó svo að flestum leiðist að of miklum tíma sé varið í umræður um trúmál og annað rugl, verðum við að taka virkan þátt í að kveða niður þessa fordóma, og þá alveg sérstaklega hjá yngra fólkinu, vegna þess að sá hópur fólks sem telur sig geta byggt afkomu sína á bænum til "almættisins" og "guðdómlegri fyrirgefningu" er alls ekki smár, og virðist yngra fólki fara þar fjölgandi, samfara stórauknu trúboði og miðilskukli.

Almættistrúin er til þess fallin að telja fólki trú um, að enginn sé þess megnugur að ráða sínum málum sjálfur, að enginn geti í samvinnu við félaga sína bjargað sér sjálfur eða unnið sjálfstætt og lagt sitt af mörkum til betra lífs og réttlátara þjóðfélags, nema til komi vilji guðdómlegrar veru, einhvers afls sem hafið er yfir mannlega eiginleika og tilveru hins daglega lífs. Þannig kemur hún í veg fyrir sjálfstæða hugsun í anda vísinda og framfara, og stuðlar að því að margskonar fordómar setjast að í hugsun fólks og að fólk sætti sig við óréttlæti og kúgun þar sem vegir Guðs séu órannsakanlegir.

Heimspeki marxista er byggð á efnishyggju og því eðlilegt að fók kveinki sér, sem gengið hefur í gegnum hið borgaralega skólakerfi og látið þar staðar numið, og frá fæðingu hlotið slíkt uppeldi sem gerir því illmögulegt að hugsa sjálfstætt.

Almættistrúboð og boðskapur þeirra manna, sem á einhvern hátt telja sig starfa í umboði einhvers heilags anda, er eitt afkastamesta vopn afturhaldsins, ásamt margskonar eitri og vímugjöfum, sem valda sljóvgandi ofmati á gildi margskonar skemmtana mannsins, eins og t.d. þegar líf einstaklingsins snýst orðið meir og minna um þá brennandi spurningu: Kemst ég í ríkið fyrir helgi eða ekki, og dans og drykkja verður undirstaða félagslífsins. Munurinn á þeim sem útdeilda hinu "heilaga orði" og þeim sem útdeila eitri og vímugjöfum á ólöglegan hátt er einfaldlega sá, að trúboðinn er ekki talinn tugthúsmatur á sama hátt og sá, er selur vímugjafa ólöglega í hinu borgaralega þjóðfélagi, þó svo að hvort tveggja deyfi og sljóvgi vitund og baráttuvilja mannfólksins. Ekki sakar í þessu sambandi að minna á, að áfengisverslun og þjóðkirkjan eru rekin af sömu aðilum og liggur því beint við að álykta, að hvort tveggja þjóni hagsmunum valdastéttarinnar, enda má að því færa fjöldamörg fleiri dæmi.

Ósjaldan er kúgun og óréttlæti framið í guðs nafni, eins og þegar kristni er troðið upp á fjölda þjóða í fögnuði hinnar einu sönnu menningar hins vestræna heims, en að sjálfsögðu er því gjarnan sleppt, að láta það fylgja sögunni, að hagsmunir einokunarkapítalistanna, olíuhringa og annarra glæpaflokka eru einmitt í því fólgnir að sem flestir séu fluttir niður í svað frumspeki og hughyggju og gleymi sér í allskonar hindurvitnum og eiturrugli.

Fjöldi fólks lætur atvinnulygara telja sér trú um það, að þeir séu nú búnir að biðja guð að hjálpa bágstöddu fólki úti um allan heim og að það þurfi ekkert að hugsa um eða vera neitt að skipta sér af málefnum snauðra og kúgaðra á annan hátt en þann, að fórna ef til vill einni sunnudagsmáltíð og biðja í hljóði eða upphátt upp í loft.

Í þeim boðskap sem dýrkendur hans segja guð hafa sagt við eitthvert tækifæri: Komi það sem koma skal, felst ein meginfjarstæða og afturhald trúarbragðanna. Það er furðulegt, að á þessari tuttugustu öld þess tímatals er hér tíðkast, skuli enn þurfa að berjast gegn slíkri hjátrú. Það skal því endurtekið, að hvers konar almættistrúboð og andadýrkun, hvort sem er í formi djöfla eða dýrlinga, er og hefur verið of afkastamikið vopn í hendi afturhaldsins og böðla þess, til þess að unnt sé að þegja það í hel.

Það borgar sig að sjálfsögðu ekki að fara um landið með dýnamit og sprengja musterin í loft upp, enda yrði það sóun á ágætu sprengiefni og yrði slíkur barnaskapur sjálfsagt til þess eins að flýta fyrir endurbyggingu og fjölgun þessara umboðsfyrirtækja eilífs lífs, og hughyggja og andakukl yrðu til alveg jafnt eftir sem áður. En þess utan eru margar leiðir færar og okkur skylt að fara eins kröftuglega og frekast er unnt.

Það þarf að skrifa meira um efnishyggjuna, og hughyggjuna, í blað okkar, en taka þó tillit til þess að við höfum ekki bolmagn til þess að standa undir þeim fjárkröfum í formi skaðabóta, sem mun skjóta upp eins og gorkúlumum leið og trúboðinu fyndist of nærri því höggvið. Heppilegasti vettvangur til umræðna er að sjálfsögðu vinnustaðurinn og kunningjahópurinn, enda kemur þetta upp þar, eins og áður er getið, nánast dag hvern í einhverri mynd.

Því verður hver og einn, eftir sinni bestu getu, og hvenær sem færi gefst, að reyna að sýna hinu vinnandi fólki fram á, að enginn getur lifað og tekið þátt í baráttunni með því einu að glápa upp í loftið, spenna greipar og væla einhverjar hendingar sem það hefur lært utanbókar sem börn, heldur verði hver og einn að leita sannleikans og byggja á þeim raunveruleika sem við búum við sem hluti af náttúrinni, ásamt vísindalegum rannsóknum í þágu hins vinnandi fjölda.

Marxisminn-lenínisminn, þar sem reynsla verkalýðsins í heiminum er dregin saman, og díalektíska og sögulega efnishyggjan ("...hinn eðlilegi skilningur á náttúrinn eins og hún birtist manni án allrar annarlegrar viðbótar..." (Engels)) er eina mögulega leiðin til þess að verkalýðurinn fái sigrast á óvinum sínum.

-/JJ

# Alþýðubandalagið og kreppan

Starf Alþýðubandalagsins seinustu mánuði hefur í sívaxandi mæli einkennst af pólitískum loddaraleik. Gömlum markmiðum og verkum seinustu vinstristjórnar hefur verið stungið undir stól og nýju, róttækara andliti hefur verið blakað framan í verkalýðinn. Þessa hentistefnu er nauðsynlegt að afhjúpa. Markmið AB-forystunnar nú er að reyna að hagnýta sér þá róttæknisöldu sem er í aðsigi meðal vinnandi alþýðu og koma sér að kjötkötlunum á ný, með fulltingi hennar.

Stéttabaráttan hefur áður sýnt fram á eðli þeirra efnahagsörðugleika sem nú steðja að. Það er auðvaldskreppan sem óhjákvæmilega herjar á hagkerfi kapitalismans með vissu millibili. Orsökin er hin hrópandi mótsögn milli félagslegrar framleiðslu verkalýðsins og einkaeignar fámennrar borgarastéttar á öllum atvinnufyrirtækjum. Þessa staðreynd hafa sósíaldemókratar AB reynt að fela. Skýring þeirra hljóðar: "Ríkisvaldið hefur tíundað ráð sín við þeim vanda, sem ég tel raunar að miklu leyti framkallaðan með vilja, eftir óskum þeirra stóreignamanna sem nota hina stórfelldu verðbólgu til að greiða fyrir sig eignirnar" (Helgi Guðmundsson, ritstjóri AB-blaðsins á Akureyri).

Í meðförum alþýðubandalagsmanna er orsaka kreppunnar þannig ekki að leita í grundvelli hagkerfisins sjálfs, heldur er hún hugarfarsleg, leikþáttur sem heildsalarnir setja á svið. Þannig er það ekki auðvaldsskipulagið sem er höfuðbölvaldurinn heldur einstakir aðilar innan þess, sem auðvelt væri að beygja með nýrri ríkisstjórn Alþýðubandalagsins Eða, eins og Helgi Guðmundsson segir: "Krafa um breytta efnahagspólitík felur um leið í sér kröfuna um að ríkisstjórnin fari frá og efnt verði til nýrra kosninga í landinu." Semsagt, nýja vinstristjórn, og, hókus pókus, kreppan burt.

Sem betur fer, fækkar þeim launamönnum sífellt sem trúa þessum lýðæsingum og lygaþvættingi AB. Sífellt fleiri gera sér ljóst, að ekki nægir að berjast gegn þeim sem fleyta rjómann af kreppunni, heldur verður að höggva að rótum vandamálanna, sem er auðvaldsskipulagið sjálft.

Alþýðubandalagið segir ástandið batna ef það komist í stjórn. Lítum á fyrri reynslu af starfi flokksins í ríkisstjórn. Núverandi stjórn hefur skert vísitölubætur eins og vinstristjórnin gerði með bráðabirgðalögum á s.l. vori. Hún hefur lækkað gengið eins og vinstristjórnin gerði haustið 1972, og síðar með því að auðvelda aukið gengissig. Núverandi stjórn hefur hækkað söluskatt, bensínskatt, lagt á gjald á raforku. Þessar skattahækkanir var AB búið að fallast í tíð vinstristjórnarinnar. Hægri stjórnin hefur því lítið annað gert en það sem vinstri stjórnin og AB voru búin að leggja drög að á einn eða annan hátt. Eða eins og Tíminn segir: "Nær allur áróður þessara aðila (AB) beinist nú að því að ófrægja þá stefnu, sem þeir fylgdu á meðan þeir sátu sjálfir í ríkisstjórn."

Það er af sem áður var. Í vinstri stjórninni, mótaði AB stefnuna í iðnaðar-, sjávarútvegs- og viðskiptamálum. Eftir þriggja ára stjórn var ástandið þannig að AB féllst á afnám vísitölubóta til launamanna vegna "slæmrar stöðu atvinnuveganna." Þá var ekki minnst á hagsmuni verkalýðsstéttarinnar eða lítinn kaupmátt alþýðuheimilanna, heldur var hagur auðvaldsframleiðslunnar hafður í fyrirrúmi. Þá var lagt að verkalýðsfélögunum um að vera ekki of kröfuhörð og harðlega ráðist gegn þeim félögum sem náðu einhverjum umtalsverðum kjarabótum. En í dag segir Magnús Kjartansson: "Það skiptir öllu máli að menn átti sig á grundvallaratriðum, að menn skilji að þau efnahagsvandamál sem við að etja, eru óhjákvæmilega tengd sjálfri gerð þjóðfélagsins en ekki tímabundnum ytri aðstæðum eða hæfileikum einhverra einstaklinga sem kunna að sitja í ráðherrastólunum í það og það skiptið" (4. mars, Þjv).

Ekki er þetta í samræmi við kenningu AB að kreppan og verðbólgan sé hagstjórnartæki eða misnotkun Sjálfstæðisflokksins á ríkisstjórnaraðstöðu sinni, og að unnt sé að útrýma með nýrri vinstri stjórn.

Og enn segir Magnús: "Þessvegna megum við ekki lúta svo lágt að gera þarfir kerfisins að einhverri viðmiðun í kröfugerð okkar og baráttu. Við megum ekki láta flækja okkur inn í einhverja útreikninga um svokallaða "getu atvinnuveganna" eða aðrar hagstærðir sem sérfræðingar kerfisins reikna út frá hagsmunum auðstéttarinnar."

Það er ekki ofmælt að MK minni á kameljónið sem skiptir lit þegar á þarf að halda.

Út frá hverju öðru en "getu atvinnuveganna" gekk AB þegar það skrifaði undir gengisfellingar vinstri stjórnarinnar, eða þegar það stóð að margvíslegum kjaraskerðingum, svo sem söluskattshækkunum og afnámi vísitölubóta?

Út frá hverju gekk Magnús Kjartansson þegar hann bar fram frumvarpið um Union Carbide verksmiðjuna í stjórnartíð sinni?

Út frá hverju gengur Guðmundur Hjartarson seðlabankastjóri AB, þegar hann samþykkir nýjustu gengisfellingu hægri stjórnarinnar?

Út frá hverju gengur borgarfulltrúi AB, Sigurjón Pétursson, þegar hann samþykkir stórlega auknar álögur á reykvíska alþýðu með hækkun hitaveitu?

Út frá hverju öðru en hagsmunum kerfisins, ganga þingmenn AB þegar þeir samþykkja söluskattshækkun úr 19% í 20%, sem þýðir hækkun óbeinna skatta og meiri álögur á þá tekjulægstu?

Söluskattsmálið afhjúpar á mjög ljósan hátt tvöfeldni AB-leiðtoganna. Í því máli kom ekki til álita að atvinnurekendur skyldu greiða aðstoðina við uppbygginguna á Neskaupsstað. Nei, Viðlagasjóður skyldi fjármagnaður úr vösum verkafólks. Þar reyndi á heiðarleika Alþýðubandalagsins. Í þingumræðum segir Lúðvík: "Ég berst gegn hækkun söluskatts en mun standa við gefin loforð!! Og hvernig stendur hann svo við loforð sín? - auðvitað með því að samþykkja söluskattshækkun.

Hagsmunir allrar alþýðu eru sviknir vegna þessa eina máls. Á sama tíma flytur AB fram tillögu um að "söluskattur hverfi af matvælum". Menn geta rétt ímyndað sér hve mikil alvara liggur að baki því frumvarpi.

Undir fyrirsögninni Gengislækkunarstjórn segir Lúðvík í Þjv (16. feb.): "Forystumenn Sjálfstæðisflokksins sjá aldrei aðra leið en lækkun kaupgjalds verkafólks. Gengislækkunarleið þeirra miðar fyrst og fremst að minnkun kaupmáttar almennings - að raunverulegri kauplækkun... Er Framsóknarflokkurinn orðinn svo samdauna íhaldinu að hann sætti sig við íhaldsstefnuna ómengaða á öllum sviðum?"

Gamalt spakmæli segir að verkin sýni merkin og Lúðvík væri hollt að minnast þess. Orðagjálfur hylur ekki auðvaldspólitík hans og hentistefnu. Alþýðubandalagsmenn voru ekki jafnupplitsdjarfir eftir gengislækkanir vinstristjórnarinnar og þá var ekki talað um íhaldsstefnu!!

Að sjálfsögðu skiptir engu hvort það er vinstri stjórn eða hægri stjórn sem er við völd í kapitalísku þjóðfélagi. Hagkerfið er samt við sig, og því verður ekki breytt með mannaskiptum í bankaráðum eða á alþingi. Það er aðeins með því að brjóta til grunna borgaralega ríkisvaldið og svipta atvinnurekendur eignarréttinum á framleiðslutækjunum, að verkalýðsstéttin fær framgengt raunverulegum hagsmunum sínum.

-/MVS

## Um Selfossverkfallið

# Frá skrifstofunum á vinnustaðina

Verkfalli verkstæðismanna í KÁ-smiðjunum á Selfossi, sem við reyndum að gera nokkra grein fyrir í síðasta tbl. Stéttabaráttunnar, er lokið, eins og öllum mun kunnugt. Og því lauk ekki með sætt, málamiðlun eða neinu þess háttar, heldur með fullum sigri selfysku verkamannanna, já raunar, með fullum sigri gervallrar íslenskrar verkalýðsstéttar.

Fyrir okkur liggur því að draga saman lærdómana af baráttunni og gera okkur grein fyrir, hvernig hægt er að hagnýta þá.

Á undanförnum áratugum hafa svipaðar aðgerðir verið gerðar í þó nokkrum mæli á ýmsum vinnustöðum víðs vegar um landið. Sumar hafa tekist, en flestar hafa endað með hálfum sigri ef ekki fullum ósigri. Á þetta minntumst við í síðasta tbl. Stéttabaráttunnar. Barátta KÁ-smiðanna gegn atvinnukúgun samvinnuauðvaldsins markaði endi þessa langa tímabils og tók upp þráðinn þar sem frá var horfið sumarið 1942. Verkfallsaðgerð þeirra mætti nú ekki þeim þagnarmúr, sem aðrir verkamenn höfðu einangrast í. Þeir náðu svo til strax eyrum allrar verkalýðsstéttarinnar, og í hið fámenna en samhenta lið þeirra bættist tugþúsund manna bakvarðarlið, sem tókst að brjóta samvinnuauðvaldið á bak aftur.

Þær aðstæður í íslensku þjóðmálalífi, sem nú eru ríkjandi, voru einmitt hagstæðar fyrir þessa "útvíkkun" verkfallsaðgerðanna, ef svo má segja. Stórfelldur niðurskurður á lífskjörum allrar alþýðu, vaxandi hætta á víðtæku atvinnuleysi og ótrú manna á getu ASÍ-forkólfanna - allt hefur þetta orðið til að þjappa verkalýðnum saman, í stað innbyrðis sundrungar, svo sem verið hefur undanfarna áratugi. Einnig hafði tilraun AB-forystunnar til að mynda einhverja andstöðu gagnvart hægristjórninni (sem [illegible] tekið flestar efnahagsráðstafanir sínar í arf frá vinstristjórninni sálugu) sitt að segja.

Annað atriði, sem var sérstakt við verkfallsaðgerðirnar var, að það var ekki aðeins verkfall, heldur fyrst og fremst barátta. Berum það saman við t.d. togaraverkfallið og verkföllin, sem nú standa yfir í ríkisverksmiðjunum. Hvorutveggja eru dæmigerð fyrir þau verkföll, sem hafa verið ríkjandi á undanförnum áratugum. Verkalýðsforystan heldur fund og fær verkfallsheimild, hefst lítið að eða makkar að tjaldabaki, hengir svo seint og síðar meir upp tilkynningu um verkfall (eða auglýsir í fjölmiðlum), verkamenn lesa tilkynninguna og fara heim á tilsettum tíma. Síðan líður og bíður og allt í einu auglýsir verkalýðsforystan fund um samningana. Nokkrir mæta á fundinn, samningarnir eru samþykktir umræðulítið (enginn veit hvort eð er, nema verkalýðsforystan, um hvað var verið að semja) og allir mæta svo á tilsettum tíma í vinnuna. Hversu gerólíkt er þetta ekki verkfallsbaráttu KÁ-smiðanna? Eða þá Sigölduverkfallinu, sem nýlega er afstaðið? (Við skulum ekki fara nánar út í þá sálma, það var gert í síðasta tbl. Stb. og er gert í þessu tbl.) Ein markverðasta niðurstaðan, sem KÁ-smiðirnir drógu af baráttu sinni, var a) mikilvægi þess, að allir tækju þátt í verkfallinu og b) mikilvægi þess, að allar samningaumleitanir væru ræddar jafnóðum af viðkomandi verkamönnum og ekkert skref stigið á undanfarinna umræðna. Í stuttu máli sagt, að verkalýðsbaráttan væri skipulögð sjálfstætt "neðan frá" og að komið væri í veg fyrir allt baktjalda makk og "þagnarskyldu" fulltrúa verkalýðsins. Þetta er önnur niðurstaðan, sem við verðum að draga af verkfallsbaráttunni á Selfossi.

Hin niðurstaðan, sem draga verður, leiðir beint af því, sem sagt hefur verið hér á undan um þær þjóðfélagslegu aðstæður, sem nú ríkja. AB-forystan og Þjóðviljinn eiga það sammerkt með ASÍ-skriffinnunum, að þau munu aldrei þora að vekja upp víðtæka hreyfingu gegn rótum auðvaldsþjóðfélagsins. Það lengsta sem þeir hætta sér er að taka upp einstök mál, sem hlotið hafa samúð og stuðning allrar alþýðu, svo sem verkfall KÁ-smiðanna, og nota þau í flokkspólitískum tilgangi. En þar með eru þeir komnir út á hálan ís. Miðað við það hitaástand, sem er óðum að skapast í efnahags- og stjórnmálalífinu hér á landi, getur hver neisti hvenær sem er orðið að báli. Selfoss-verkfallið sýndi okkur það, þótt það sé aðeins vísir að öðru meira. Þannig ber öllum heiðarlegum verkalýðssinnum, þar með taldir almennir alþýðubandalagsmenn, að standa á varðbergi gagnvart öllum loddarabrögðum ASÍ- og AB-broddanna. Höfuðnauðsyn er á, að efla samstöðu verkalýðsins (öll skilyrði fyrir því hafa sjaldan verið eins hentug og nú, sbr. áhrif KÁ-verkfallsins), en brjóta hana ekki niður með sýndarverkföllum eins og febrúarverkföllunum í fyrra, eða sjálfsmorðs-verkföllum af gerð togaraverkfallsins núna. Höfuðnauðsyn er á, að sameina allar gagnrýnisraddir á ASÍ-forystuna, en láta ekki blekkjast af sýndarmennsku hennar. (Víturnar, sem tæpl. 80% allra verkalýðsfélaga samþykktu á 9 manna nefndina fyrr í vor, og jafnframt sundrung þeirra (hvert um sig sagði: Við getum ekki staðið einir) sýna þetta einnig).

Þetta þýðir:

1. Samningsréttinn verður að færa í hendur hinna einstöku verkalýðsfélaga, frá 9 manna nefnd ASÍ.

2. Hulunni verður að lyfta af samningamakkinu við atvinnurekendur og ríkið.

3. Virkja verður meginþorra verkalýðsins í samningunum og verkfallsaðgerðum, með því að láta hann taka sem mestan þátt í samningagerðinni sjálfri, að samið verði "á vinnustöðunum en ekki á skrifstofunum."

-/óhs

Guðmundur J. Guðmundsson
Nóatúni 26
R.

Reitur til áskriftarmerkingar.

**Stéttabaráttan**

ÖREIGAR ALLRA LANDA SAMEINIST! LIFI MARXISMINN LENINISMINN HUGSUN MAOS TSE TUNGS!

Félagar áskrifendur.

Nú hefur STÉTTABARÁTTAN fengið póstgíróreikning, nr. 27810. Það auðveldar ykkur að greiða áskriftirnar - nú getið þið gengið bæði í banka og pósthús og greitt þar.

Áskriftargjöld eru sem hér segir:

| | | |
|---|---|---|
| Venjuleg áskrift | : | 600 kr. |
| Stuðningsáskrift | : | 800 - |
| Baráttuáskrift | : | 1000 - |

# FRÁ ÁBURÐARVERKSMIÐJUNNI VERKFALL

Þessa dagana stendur yfir verkfall í ríkisverksmiðjunum og Kísiliðjunni. Gerð samninga er í fyrsta sinn í höfuðdráttum þannig, að verkalýðsfélögin semja beint við stjórnir verksmiðjanna og ríkið líkt og hjá ÍSAL. Samningarnir nú eru í beinu framhaldi af starfsmati, sem unnið var í verksmiðjunum.

Í Áburðarverksmiðjunni var starfsmatinu þannig háttað, að einhver "stúdíósus" gekk um svæðið og horfði á menn vinna, gaf þeim síðan punkta fyrir hitt og þetta, s.s. nákvæmni, þekkingu og þ.u.l. Þetta leiddi til mjög mikils mismunar á mönnum, sem unnu t.d. hlið við hlið, svo sem í sekkjun, þar sem eru þrjú mismunandi störf (á stút, götun og stöflun). Samkvæmt starfsmatinu þá fara þessir menn í þrjá mismunandi launaflokka. Af þessu má sjá að starfsmatið, ef samþykkt verður óbreytt, vinnur að sundrungu meðal verkafólks í verksmiðjunni, sem óefað er einn tilgangur þess. Megn óánægja hefur verið með starfsmatið og tilraunir af hálfu verkafólks til meiri samræmingar þess hafa átt erfitt uppdráttar. Verkamenn í sekkjun t.d. neita að vinna hlið við hlið í þremur mismunandi launaflokkum, svo ljóst er, að þar verður að semja um einn launaflokk fyrir alla. Óánægjan með starfsmatið á rætur að rekja til þess, að verkamenn hafa lítið sem ekkert haft með það að gera, matið kemur ofan frá, frá verkalýðsforystunni og ríkinu. Verkfallið sem nú stendur yfir, er gert til að knýja fram starfsmatið, sem þrátt fyrir sína galla felur í sér allverulegar launahækkanir, mismiklar að vísu eftir starfshópum.

Enginn fundur var með verkamönnum um verkfallið áður en það hófst, aðeins var fest upp tilkynning frá Halldóri Björnssyni um að verkfall hæfist 12. maí. Verkfallstíminn gat vart verið heppilegri fyrir stjórn verksmiðjunnar, bæði var að miklu magni af áburði tókst að afgreiða fyrir verkfall og um miðjan mánuð er kaup venjulega greitt út fyrir allan mánuðinn (þ.e. hálfur mánuður fyrirfram). Hins vegar miðast vinnuskýrslur mánaðarkaupsmanna (hve margar vaktir, aukavaktir eða yfirvinna) við 11. hvers mánaðar. Verkfallið hófst 12. maí. Hálfsmánaðarfyrirframgreiðslan var því látin niður falla og menn fengu kaupið aðeins greitt til og með 11. maí, og var því launaumslag margra því ærið létt þegar skattar og annað hafði verið dregið af kaupinu.

Samningagerð er, þegar þetta er skrifað, alveg komin í hnút, enda líklega aldrei ætlunin af hálfu ríkisins að semja um eitt eða neitt. Samningafundir eru nánast formsatriði, þar sem ríkisstjórnin ætlar sér án efa að "leysa" verkfallið með bráðabirgðalögum, því hún óttast það fordæmi, sem verulegar kauphækkanir kynnu að hafa fyrir hina almennu kjarasamninga. Ólíklegt er að verkamenn muni sætta sig þegjandi og hljóðalaust við setningu bráðabirgðalaga, heldur svari þeirri ofbeldisárás ríkisvaldsins með gagnaðgerðum.

RS/JRS

# HERÐIÐ RÓÐURINN!




Fjölgun áskrifenda heldur áfram - frá 19. apríl fram til 17. maí hefur áskrifendum fjölgað um 11,8% og heildartalan því orðin 35,5%. Frábært! Þetta þýðir að okkur hefur tekist að minnka bilið á milli rauðu línunnar, sem sýnir stöðuna í dag - og svörtu línunnar sem sýnir hvernig 100% línan liggur. Brotna skálínan sýnir aukninguna í fyrra, 60%.
Þegar sumarið gengur í garð gefast mörg tækifæri til að safna áskrifendum meðal vina og kunningja, og síðast en ekki síst vinnufélaganna. Félagar og stuðningsmenn! látið ekkert tækifæri ónotað til að efla Stéttabaráttuna.

# GERIST ÁSKRIFENDUR!